Evangelisk-kristileg

# Messu-saungs-

og

# Sálma-Bók,

ad konúnglegri tilhlutun samantekin

til almennilegrar brúkunar í

## Kirkjum og Heima-húsum

og útgefin af því

konúnglega íslendska

## Lands Uppfrædingar Félagi.

Selst almennt í velsku bindi, 64 skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1801.

Prentud af Faktóri og Bókþryckjara

G. J. Schagfjord.

# Til Lesarans.

Hin næst undanfarin 207 ár hefir Island haft fyri sig ad bera einúngis eina Messu-saungs-bók til brúkunar í kirkjum sínum, nefnilega Grallarann, hvörs fyrsta útgáfa prentud útkom í 4to 1594. Orsökina til hennar lesum vér í Kóngs-bréfinu af 29da Apr. 1585, sem baud þáverandi Biskupum ad velja til þad Sálma-safn og útleggíngar þeirra; sem syngjá mætti í kirkjum landsins, svo allt færi þar reglulegar fram enn ádur. Grallarinn sjálfur sýnir best hvör-jum, sem les hann og yfirvegar med greind og at-hygli, ad þá, svo skömmt eptir sidaskiptin hér á landi, hefir, í þessu tilliti, ecki verid um audugann gard ad gresja, ecki um mikid af gódum Sálmum ad velja, því er svo margt léttvægt á milli hans brúkanlegu Sálma í hann innkomid, og margir Sálmar, vers og orda-tiltæki í honum, verda

jafnvel eki med ánægju lengur súngnir af þeim, er nockud hugsa úti hvad þeir medfara, því svo hefir Upplýsíngarinnar ljós smámsaman gladnad hér hjá oss, sem ödrum kristnum þjódum nú í rúmar tvær aldir í ýmsum lærdómum, ad sumt, er þá þókti standast mega, gótt og jafnvel ósandi, er nú þeckt ad vera rángt edur ótilhlýdilegt, hé-gómlegt og óverdugt þeim Gudi, sem í opin-berri þjónústu-gjerd dýrkast á einninn med verd-ugum Sálmum og Lof-saungum. Ad Grallar-inn í ádursøgdum greinum hefir lík lýti og danskar Messu-saungs bækur, sem um sama leitid, og þó nockud fyrr, útkomu, einkum Biskups Niels Jespersens Graduale, sem útkom 1573, hvadan vor Grallari er ad miklu leiti útlagdur, eru eng-in undur, þar øll líkindi vóru til ad Upplýsing hér í landi þá og sídan hefdi aldrei tekid Danskra fram, en því tilhlýdilegra, sem vyrdast má, ad Island lagi sinn Saung og Kirkju-sidi eptir enna dønsku landa Sálma- og lærdóms-bókum, því furdanlegra er, ad Island eitt hefir í 207 ár eyrt vid óumbættann vana-saung eptir Grall-aranum, þar sem Danskir hafa látid sér umhug-

ad

ad vera, ad gánga fram med tímanna upplýsíngu, og fá søfnudum kirknanna í hendur til kirkju- og heima- gudrækni, margar sídan útkomnar stór-kostlega umbreyttar og endurbættar Messu-saungs bækur, af hvørjum 3 ólíkar eru sídan 1764 út-komnar, og hin sídarsta 1798.

Ad Island hafi engu minni þørf þará haft, í tilliti til Grallarans, er nú audrádid, líka fyr-ir laungu vidurkénnt, þar sem Konúngur vor skip-adi, þann 24da April. 1784, bádum þessa lands þá verandi Biskupum: ad velja til gott Sálma-safn til nýrrar Messu-saungs bókar fyrir Island; en med því erfidi þad var svo skammt á veg kom-id, þegar hid konúnglega íslendska Lands-uppfrædíngar Fèlag var ný-stiptad, þóknadist því konúnglega danska Cansellii med brèfi af 24da Oct. 1795 ad fela Fèlaginu á hendur ad gjøra þetta Sálma-safn, og Konúnglegri Hátign med brèfi af 22rum Júlí 1796, ecki einúngis ad leyfa Fèlaginu ad fullkomna nýa Messu-saungs- Sálma- og -Handbók fyrir Island, og auka hana med ýmislegum af tilnefndum mønnum út-valdum, og af Biskupinum í Skálholts-stipti yf-

irskodudum Sálmum, heldur og bjóda: ad nefnd Messu-saungs- Sálma- og -Handbók megi sídan innleidast til almennrar brúkunar í Kirkjunum á Íslandi. Þetta Kóngs-bréf er því bædi hin sama heimild og bodord um þessarar nýju Messu-saungs- og Sálma-bókar Safn, útgáfu og innleidslu hér í landi í Kirkjur og heima-hús, (því til brúkunar á bádum stødum er hún med alúd legud), sem hid upphaflega umgétna Kóngs-bréf af 29da Apr. 1585 var fordum fyrir Grallarans Sálma-safni, útgáfu og innleidslu hér, sem hófst, í tilliti til nefnds bréfs, strax eptir þad hans fyrsta útgáfa 1594 útkom; adrar skipanir um hans brúkun hjá oss, eru sídan engar útkomnar, og engar heldur ødruvísi um brúkun og innleidslu nýrra Messu-saungs bóka í enum dønsku lendum.

Eptir Canselli-bréfinu af 24da Oct. 1795, tók Félagid strax kappsamlega ad erfida upá nýtt Sálma-safn til Messu-saungs bókar, og med því Tilsjónarmanni Félagsins var af því einkum falid á hendur ad útvega, velja og til yfirskodunar framleggja þetta nýja Safn, innbaud hann strax bréflega mørgum gódum skáldum í

landinu

laudinu til fullkomnunar og adstodar þessa verks, og sendi þeim fjølda útvøldustu danskra Sálma til útleggíngar, af þeim nýjustu dønsku Messu-saungs- og Sálmabókum; en, þó hann þegar um vorid 1796, hvad ádur er kunngjørt í Íslands Minnisverdu Tídinda Ita Bindi bls. 169, hefdi þá lagt álitlegt Sálma-safn undir sál. Biskups Drs. Hannesar Finnssonar yfirskodun, og um sérhvørn Sálm þarí fengid hans skriflegt álit, leitst enn þá ad auka bókina med fleirum, hvørs-vegna hann, á nefndum Tídindanna stad, opinberlega baud hvørjum sem vildi, ad innsenda góda og útvalda Sálma til bókarinnar. Fjøldi mikill Sálma hefir sídan til Félagsins innkomid, og hefir þad nú á 6ta ár, einkanlega med laungu erfidi þess Tilsjónarmanns, varid til møguleguslu alúd, ad velja í þessa bók, bædi þá bestu gømlu og nýjustu danska og íslendska líka nockra þýdska Sálma, hvørjum ýmisleg gód skáld vors lands hafa snúid á vora túngu; semuleidis ad nidur-rada þeim eptir innihaldi, sem best, í sømu flocka, og sú nýjasta danska Messu-saungs- og Sálma-bók af 1798, heldur. Loks-

ins er þetta Sálma-safn frá upphafi til enda af mér, Biskupi Geir Vidalín og mér, Júśtitsrádi M. Stephensen, sem vid best gátum, náqvæmlega tvisvar gégnumskodad á nærstlidnu hausti og vetri, umbreytt og lagad, hvar þurfa þókti, rétt eins og þad nú er Pressunni framselt, og vonum vid sameginlega og óskum, ad þau mikilsvyrdu skáld, sem í bókinni finna kunna eitthvad umbreytt í Sálmum sínum, vyrdi þessa breytíngu einúngis eptir ockar velmeinta tilgángi, því framar, sem vid fúsir erum ad telja fram roksemdir, sem þar til leiddu vid almenna Messusaungs bók, hvörjum þeim hlutadeganda, sem óskar, á hentugri stad og tíma, enn hér frambýdst.

Ad upptelja hér, hvörjir hellst Sálmar medal enna nýrri, séu orktir eda útlagdir af hvörju skáldi fyrir sig, er bædi oflángt í þessum Formála, líka ótilhlýdilegt vid fyrstu útgáfu þvílíks Sálmasafns, sem vænta má í fyrstu, bædi réttsýnna og velþenkjandi, líka fávísra og partískra dómendra, en vid 3ju útgáfu bókarinnar vyrdist þad registur í fyrsta lagi ad mega útkoma, í hvörju skyni þad og mun vardveitast hjá enu konúnglega íslend-

lendska Lands-uppfrædíngar Félagi. Hér er oss nóg ad nefna, ad auk þess, sem Tilsjónarmadur Félagsins hefir nýtt lagt til bókarinnar og vid samegiulega lagad af gömlu og nýju, ega eptirskrifud Skáld verdugt þackläti og heidur skilinn, fyrir þad töluverda af nýjum Sálmum, sem þeir hafa audgad þessa Sálma-bók med, nefnilega: Presturinn Hra. Arnór Jónsson til Hvanneyrar og Bæjar, Prófasturinn Hra. Christján Jóhannsson, sál. Presturinn Einar Jónsson ad Fellsmúla, ad því leiti nockrir Gellerts Sálmar af honum útlagdir finnast í bókinni; Sýslumadurinn Hra. Jón Espólín, Prestarnir HHr. Jón Hjaltalín á Saurbæ, Jón Þorláksson á Bæsá, Þorsteinn Sveinbjarnarson á Hesti, og einkanlega Skólahaldarinn Hra. Þorvaldur Bødvarsson. Hérađauk á Prófasturinn Hra. Jón Ormsson ad Saudlauksdal einn Sálm í bókinni, og Presturinn til Mødruvalla Klausturs Hra. Þórarinn Jónsson annann. Allt hitt, eru gamlir, gódir Sálmar, sumir nockud styttir og lagadir.

Vid val, yfirskodun, løgun og nidur-rødun þessa Sálma-safns, høfum vid haft sømu reglur fyrir augum, sem þeir, er samanvøldu og løgudu þá nýjustu dønsku Messu-saungs bók, eptir því sem Sjálands nafnfrægi Biskup Dr. Balle hefir þarum á prenti auglýst, nefnilega:

1.) Hvad nidur-rødun Sálmanna snertir, er þeim hér skipt í 3 høfud-flocka, nefnilega: 1.) Lofgjørdar og Þacklætis-Sálma, 2) Bænar-Sálma, og 3.) Sálma til vissra tíma. Eginlega ad tala, ættu allir Sálmar, sem ætladir eru til Messu-saungs og þar til hæfir, ad gèta heimfærst, annadhvørt til Lofgjørdar- og Þacklætis- ellegar til Bænar-Sálma, eda til hvørutveggja, og svo munu flestir Tíma-skipta-Sálmar finnast lagadir; þeir Sálmar, sem til hvørugs heimfærast kunna, eru annad hvørt dogmatiskir, út af ymislegum greinum kristilegrar trúar, ellegar historiskir, hvørutveggju kunna vel ad lesast af einstøkum manni fyrir sig med nockurri uppbyggingu, hafi hann þann undarlega smeck, heldur ad uppfrædast um djúpsær og þúngskilin efni í samstødum enn í sundurlausri rædu,

sem

sem þó á best vid þvílík, en óhæfilegir og illa hlýdandi verda þeir samt til opinberrar Guds-dýrkunar í kirkjum og heima-húsum, hvar hjört-un med saung ættu ad upplypta sér til Guds í Lofgjörd og Þacklæti og Bæn, en þar á mót krist-inndómsins höfudlærdómar, einkum þeir leyndar-dómsfullu, sem enn framar sýnast ad vera lag-adir fyrir skynseminnar ígrundun eda jafnvel henni ofþúngir, enn fyrir hjartad, ad kénnast í prédikunum, Katekisatsíónum og lestrum, ad því leiti sannur. kristinndómur. áskilnr, en eil þar til óhentugum Sálma-saung. Og hvad er náttúr-legra, enn ad hjartad, t. d.: fullt af undrun yfir dásemdum Guds í náttúrunni, af vidurkénníngu Guds máttar, speki, gjædsku og födurlegu, vel-gjørninga, og af tilfinníngu egin meina og naud-þurftar, brjótist út med saungvum til hans, í lof- og þackar-gjørdum, í bænum og ákollum? hvad undir eins tilhlýdilegra, enn ad menn leggi fram skynseminnar alvarleguftu athygli, þegar hún uppfrædast, leidréttast edur uppvekjast á til betri greindar og skilnings á þeim smásmuglegri edur og óljósari kristinndóms atridum, til hvørrar sundurlaus ræda án efa er lánghæfileguft.

Eins og Sálmar þess vegna, eptir þeirra sanna edli og náttúru, ega einkaulegast ad þéna til hjartans uppvakningar og undir eins betrunar, svo eru þeir flestir í þessari bók, móralskir, edur til sidbóta lútandi, en svo fáir, sem engir, einúngis dogmatiskir, hvert efni Kénnendum hlýdir sálma-laust ad útlista, nema Credó edur No. 1, sem ad sönnu heldur enga bæn, heldur styttsta ágrip Trúarjátningar vorrar kirkju, og má því ad þessu leiti medal Lofsaungva telja. Fjøldi annara Sálma inniheldur bædi Lof- og Þackar-gjørdir og undir eins Bænir, svo þeim hefir í því tilliti verid vandskipt á milli 2ja þeirra fyrstu Flocka, en þarí hafa menn bædi fylgt ńýjusiu dæmum í Messu-saungs bókinni dønsku, og líklegustu røksemdum.

2.) Í orda-lagi Sálmanna er, vegna framantaldrar Grundvallar ástædu, sneydt bædi hjá øllum myrkvum og þúngskildum, líka og efa-sømum og tví-rædum orda-tiltækjum, en kostad kapps um ad laga þá, sem ljósast og skiljanlegast vard fyrir fáfróda og einfalda, hvørra fjøldi er mestur til, og þeim hellst þørf á med Sálmum ad upp-

vek-

vekjast og uppbyggjast. Þess vegna hefum vid opt verid neyddir til ad setja góda, en of þúngskilda Sálma med myrkvum orda-tiltækjum og snúinni orda rød til sídu, því þó þvílíkir vera kynnu gódir og snotrir fyrir lærda og skarpvitra menn, gátu þeir aldrei ordid hentugir alþýdu saungvar, sem almenn Messu-saungs- og Sálma-bók þó krefur. Sama er og ad segja um eldri og nýrri Sálma, sem fullir hafa fundist af eptirlíkinga-fullum, myrkvum (mystiskum) orda-tiltækjum eda frekum heims ádeilum. Framar ad halda sig vid bibliu-lærdómanna sønnu meiníngu, enn vídа óljósu orda-tiltæki, hafa menn því haft fyrir augum, og í Sálmum eldúngis ad sneyda hjá þeim annadhvørt vafasømu eda skynseminni ofháu lærdómum, sem gjøra kynnu bókina midur medtækilega fyrir menn, hvørra sannfæríng ecki er søm í øllum atridum kristinndómsins. Þess vegna vonum vid, ad sérhvørr, sem ad eins medkénnir sig til vorra Trúarbragda, muni allt þad finna í þessari bók, sem væntast egi í Sálmum, eptir ádurtøldum reglum, og eckért þad orda-tiltæki, á hvørju nockurr géti hneixlast, hvørt sem honum kémur í øll-

um trúar atridum saman vid adra, edur ei; og þessa reglu álitum vid því heldur skyldu ad adgæta, sem bókin var ei ætlud til nockurra fárra, heldur allra sameginlegu gudrækuis uppørfunar, sem vid vonum og óskum ad hvørt og einn gæti nú af henni fundid.

3.) Menn sakna hér máské ymislegra gamalla Sálma, og þar á medal nockurra Davids; adra finna menn umbreytta, en þad sé hér nóg fyrst ad nefna; ad svo sem reynslan hefir fyrir laungu sannfært Kénnendur um, ad vana-saungvar og vana-lestrar; einkum sífeldlega upp aptur og aptur brúkadir; ár eptir ár; øld eptir øld; missa skjótt mikid af þeirra krapti; til ad hræra manneskjur til betrunar og vekja þær til eptirþánka, en verka miklu heldur eptirþánkaleysi í saung og lestri, hvørt þá er til fáuhtis; hafa upplýstar kristilegar þjódir látid sér umhugad ad skipta margopt um Messu-saungva og Sálma; þarnæst má þess og hér geta, ad margir af þeim Sálmum, sem ágætlega hlýddu uppá David og hans ymislega ástand, og sem þess vegna í hans og hans fólks munni vóru dýrmætustu Lof- og

Þack-

Backar-gjørdar og Bænar Sálmar, ega eng-annveginn vid Messu-saung hér í voru landi. Því er ei heldur ad leyna, ad í vorar misjøfnu Bibliu-útleggíngar hafa vída innskotist vorri túngu óeginleg Austurlánda myrk hebresk og grísk orda-tiltæki, og þarmed gjørt vora eldri Sálma myrkva; þetta, og ad margt í Grallarans Sálmum ecki hlýddi til vors lands eda lengur til vorra tíma upplýsíngar, var því ásamt orsøk til ad sumir eru felldir úr, en sumir nockud breyttir; þó hafa menn, í tilliti til skáldskapar lýta og misbrúkunar á laungum og stuttum atqvædum í þeim eldri Sálmum, vída sjed heldur ígegnum fíngur vid þá, enn hina nýrri.

4.) Sálma-løgin munu í bók þessari finnast flest audveld og falleg. Hjá vondum, ókunnugum og leidinlegum hefir med vilja snedt verid. Af þeim 100 løgum hún heldur, eru fá medal enna eldri alþeckta, sem vønd heita megi, nema máské þessi: Af fødurs hjarta barn er borid, sem fyrirkémur einúngis vid No. 96, Anda þinn Gud, vid No. 110, Far heimur, far sæll! vid No. 235, Hvørr sér fast heldur, vid No. 277,

I Jesú nafni uppstá, vid No. 226, 259. Kom hér, mín sál! og kynntu þér, vid No. 270, Margt er manna bølid, vid No. 51, O fadir himneski og eilífi Gud! vid No. 82, 282 og 299, Upp, uppstatt í nafni Jesú, vid No. 4, Þann signada dag vér sjáum nú einn, vid No. 329; og mundi hid konúnglega íslendska Lands-uppfrædíngar Félag fúst á, ad láta sérílagi prenta Nótur til þessara 9 eda jafnvel fleiri laga, ef svo margir þar um bædu, ad kostnadurinn borgadist; þeir sem þessi fáu løg ecki kunna, efast menn ei um ad brádlega géti þau lært af þeim, er betur vita, hafi þeir annars nockra saungrødd eda lagsæld, en þeim, er þetta vantar hjá, verda jafnvel audveldustu og alkunn løg of-vaxin.

Ný løg fyrir koma alls 3 í bókinni, og þó mega 2 af þeim hér gømul heita. Þessi 2 hálfnýju, sem vegna ókunnugleika teljast nú svo, eru løgin: Jesú pínar opnu undir, til hvørs Nótur eru í bókinni prentadar vid No. 40; þó þad vid marga fleiri Sálma fyrirkomi, er samt vid hvørn einn þeirra þar til nótnanna vísad. Sálmurinn: Jesú pínar opnu undir, er hér ádur

útkominn í almennum Sálma-bókum, (en nú finnst hann hér umbreyttur undir No. 74) því ætti lagid og ad vera hér kunnugt, en hans rétta fallega lag eptir Nótunum hefir þó nær því aldrei vid hann brúkad eda þeckt verid, heldur lagid: Hjarta, þánkar, hugur, sinni, sem þó er frá-leitt, en kémst vel heim. Þess vegna géta þeir, sem ei komast laglega uppá þad audvelda og rétta lag eptir Nótunum, vid alla þá Sálma þetta er fyrirskrifad, á medan brúkad hitt. Sama er og ad segja um hitt hálf-nýja lagid edur: Hvørr sem ljúfann Gud lætur ráda, til hvørs Nótur eru prentadar vid No. 64, þó Sálmurinn sjálf-ur standi fyrst undir No. 162; því bædi er hann hér ádur prentadur í algengum Sálma-bókum og líka nockurnveginn Nótur ádur til hans lags vid eldri og ólíka útleggingu Sálmsins: Hvørr veit hvad fjærri' er æfi endi, medal þess parts Ringós Sálma, sem Arni Prófastur Þorláks-son, Þíngvalla Prestur útlagdi, og komu prent-adir út í 12mo árid 1693 ad Skálholti. Samt hafa menn vid báda lengst af brúkad lagid: Ris upp, mín sál! og bregd nú blundi, og má þad

b) stand-

standast; en of fallegt er það rétta og nú eptir nót-unum nógu audveldt til þess, að það verdi hédan af lengi ókunnugt.

Það eina hér ádur óþeckta nýja lag er: Sæti Jesú! sjá oss hér, til hvers nótur finnast við No. 70; er það eitthvert hid prýdilegasta danskt sálma-lag, sem hér ætti og að géta sem fyrst prýdt vorn Sálma-saung og innleidst, og hlutadegandi gódir og sæmilegir Saungmenn, verja nockru ómaki til ad læra það ásamt hinum, bædi eptir nótunum, líka og af þeim ýmislegu mønnum, sem lagid kunna; samt er svo mikla Sálma byrgd í bókinni ad finna, ad þó á medan sé hjá því og ødrum sneydt af nockrum, er ei treysta sér nockurnveginn vid þessi eda ønnur Sálma-løg, er nóg annad til í bráð undir audveldum og kunnugum løgum, en vandra og ó-kunnugra laga tala þar á mót fá.

Annars er mikilega óskandi, ad hverr og einn, einkum Prestarnir, létu sér alvarlega umhugad vera, ásamt bók þessari ad innleida hverr í sína kirkju og sídan vidhalda gódu Saung-formi og -reglu, svo opinber Gudsþjónusta mætti þar sem verduglegast framfara, og í því tilliti kostgæfilega nýttu sér þá

stuttu

stuttu vegleidslu þartil, sem aptan vid bókina finnst, bædi vidvíkjandi þeim 3 nýju nóterudu Sálma-løgum og yfir høfud ad segja reglulegum Sálma-saung.

5.) Þarí er þessi Messu-saungs- og Sálma-bók, medal annars, Gradúanum ólík, ad hann tiltekur Sálma til hvørs Messu-dags, þó sumir Sálmar eptir honum verdi súngnir, sumir nærfellt hvørn helgann dag árid um kríng, sumir svo missirum og nockrum mánudum skipti, og sætstir sjaldnar enn 3 messu-daga í rød; þessi nýja Messu-saungs bók tiltekur þar á mót enganu vissann Sálm til nockurs messu-dags, heldur lætur nægjá, ad dæmi nýjustu dønsku Sálmabókarinnar af 1798, ad skipta þeim eptir efninu í hentuga flocka og auðkénna hvørn einn med vaxandi tølu frá upphafi til enda bókarinnar. Ad vissir Sálmar ecki eru tilteknir til hvørs messudags, kémur þar af, ad upplýsing seinni tímanna hefir fundid þetta þvi óþjenanlegra, sem, væri þad fastsett, kynnu opt þeir Sálmar ad verda súngnir, sem fjarstædastir væru ad efni Prestanna prédikunum og tímanna margvíslegu biltingum, og þess vegna hefir þókt tilhlýdilegast, ad hvørr og einn Prestur veldi í hvørt

 sinn

sinn þá Sálma úr bókinni til, sem best ættu vid rædu-efni hans, og þanninn er nú fyrir nockru sídan adfarid í fjølda danskra kirkna og sjálfum adsetnrs-stad vors Kóngs, Kaupmannahøfn. Nú verdur spurníng: er þad þó ei á móti Ritúalinu? og svarid sýnist ad verda: 1.) ecki framar hér enn þar; 2.) hefir til þessa dags Ritúalinn aldrei fylgt verid í tilliti til Sálma-saungs hér á landi, ad vitni Biskups sál. Drs. Finns Jónssonar*), hvad og vottast þaraf, ad menn híngad til hafa fylgt Grøllurunum; nú er Ritúalid þó 91 ári ýngra og þessu vidvíkjandi Grallaranum nærsta ólíkt, t. d.: Ritúalid býdur ad byrja Saunginn med Kyrie, hér hefir alltaf súnginn verid heill Sálmur á undan og á hátídum 2; Ritúalid afteknr þau gømlu Hallelújah, sem hér hafa vídast verid þó súngin til þessa. 3.) Ritúalid vísar og til ennar tilskipudu Sálma-bókar, úr hverri sýngja megi í stad þeirra tilteknu Sálma, adra sem hlýdi uppá dagsins Gudspjall eda Pistil, svo vid fasta red er ei bundid.

En — sá skynsamlegasti máti ad haga, sem best Sálma-saungnum eptir þessum nýju Messu-

*) Sjá Hist. Eccles. Isl. Tom. III. p. 516, §. 29.

saungs- og Sálma-bókum, uns nýtt Ritúal einhvern tíma kann framar ad fastsetja þarum vissari reglu, hefir Danmerkur geistlegum Lærifedrum, eptir því sem Sjálands verdugi Biskup Dr. Balle hefir þar um auglýst á prenti, sameginlegast, litist eins og háttnefndum Biskupi sjálfum, ad vera hérumbil þessi: ad eptir þá venjulegu bæn í kór-dyrum, sé Saungurinn birjadur med einhvorjum stuttum bænar-sálmi þesshattar efnis, sem hér eru í bókinni ad finna No. 196 til 200, bædi medtalin; ad þessi No. sýngist svo til skipta, ad sami Sálmur verdi ei súnginn optar í sømu kirkju, enn hérum 4da hvørn Messu-dag. Ad því búnu byrji Presturinn einhvørn í bókinni tilvalinn Lofgjørdar- eda Packlætis Sálm, og þareptir tóniſt Collecta og Pistill eins og vant er; á milli Pistils og Gudspjalls sýngist einhvørr stuttur Sálmur, hellst Lofsaungur; eptir Gudspjallid Sálmur, sem Presturinn finnur vel ad hlýda uppá sitt rædu-efni, vid hvørs lok hann stigur í stól. Ad í prédikunar-stól sé á undan Gudspjalli eckert vers súngid, nema á hátídum eitthvørt til skipta, af þeim bókin sýnir þar til

hlÿda. Eptir prédikun eitthvert af þeim ein-støkum versum, edur annad til ræduunar pass-andi vers úr Sálmi, sem þarad lútandi flockar frambjóda. Á undan og eptir Skirn, undan og eptir Hjóna-vígslu, undan og eptir Kateki-satsión, undan og eptir Konfirmatsión; undan og um og eptir Altaris-gaungu, undan og eptir Greftranir, og svo fr., þeir best tilfallnu Sálm-ar til skipta, sem bókin þartil vísar á. Þar ad auk, sem best þykir henta á sérlegum tím-um þaradlútandi Sálmar, svo sem: vid Ara- og Missira-skipti, og samhljóda Rítúalinu, næsta Sunnudag eptir Michaels-messu, Packlætis-sálm-ar, sem best vid ega t. d.: frá No. 266 til 271, fyrir aflidins sumars faung, hvarhjá til-hlÿdilegt vyrdist ad hér í landi súngid væri eptir sem hagar, No. 272 og 273 eda 274, fyrsta Sunnudag í Júlí mánudi, eptir lidnar vetrar- og vor-vertídir, undir hverjum kominn er svo mikilvægur bjargræda útvegur vors lands. Fram-vegis Reformatsións-sálmar, á Allraheilagra messu eptir Rítúalinu; þetta hvert um sig, sem tímum hlÿdir, þar sem best fara þykir í mess-

unni

unni; Utgaungu-sálmur eptir blessun, endar messuna eptir Ritúalinu, og vilja menn hann valinn sé ásamt hlýdandi, annadhvert til rædunnar hvern dag, eda þess sérlega tíma. Hér hefir auk þessa súngio verid útgaungu-vers, en af því veit hverki Ritúalid, né sú danska kirkja, en þegar katekíserad er, aukast þó vid versin, sem bókin heldur þar uppá hlýdandi No. 312 til 314. Litaníu, sem brúkud hefir verid á Bæna døgum, hefir sú nýjasta danska Messusaungs og Sálma-bók af 1798. úrfellt, en í hennar stad innsett samgýldandi Fyrirbæna-sálma til brúkunar eptir ásigkomulagi; þesshättar ýmislegir finnast því og í þessari bók frá No. 236. til 248. Nú kann einhvørr t. d. ad spyrja: hvør er likleg Sálma-saungs nidurskipan á Nýári? sá sem gjørir ráð fyrir Prestsins rædu- vidvíkjandi Þácklætis endurminníngu fyrir Guds margføldu velgjørnínga og varatekt á aflidnu ári, stíngur máské eitt árid uppá þessum Sálmum: Messu-upphaf No. 196, þar nærst No. 27. Milli Pistils og Gudspjalls, No. 31. Eptir Gudspjallid: No.

251. J prédikunarstól No. 48. Eptir prédikun No. 249. og Eptir blessun: No. 254. A Jólum: messu-upphaf: No. 199. þar næst No. 47. Milli Pistils og Guds-spjalls No. 60. Eptir Gudspjall No. 56. J prédikunarstól No. 58. Eptir prédikun No. 46. Eptir blessun No. 61. Svo kynni og margur Prestur, sem einhvern Sunnudag prédikar um Traust til Guds, ad velja til þessa Sálma t. d.: Messu-upphaf No. 200, þar næst No. 15. Milli Pistils og Gudspjalls No. 11. Eptir Gudspjallid: No. 163. Eptir prédikun seinasta versid af No. 162. A undan Altarisgaungu No. 212. Um útdeilingu No. 214. Eptir útdeilingu No. 218. Eptir blessun No. 158. A undan Katekisatsión No. 313. Eptir Katekisatsión No. 314. Somuleidis á Páskum: Messu upphaf; No. 197. þar næst No. 1. Milli Pistils og Gudspjalls No. 82. Eptir Gudspjall No. 81. J prédikunarstól No. 84. eda No. 90. Eptir prédikun No. 85. eda No. 91. Og eptir blessun No. 88. A Hvítasunnu

t. d.:

t. d.: Messu-upphaf: No. 198. þar næst No. 2. Milli Pistils og Gudspjalls No. 109. Eptir Gudspjall No. 106. J prédikunar-stól No. 108. Eptir prédikun No. 98. Eptir blessun 103., ellegar adrir Sálmar, sem Prestur-inn finnur best ega vid sérhvørn dag og sitt rædu-efni, þó svo ad vid messu-giørdir sé alls eckert þad súngid, sem ei finnist í þessari Messu-saungs- og Sálma-bók, og ad hvørr og einn tilheyrenda géti í henni uppflett því, sem sýngja á, tekid samegin-lega undir med ødrum og þurfi ecki ad þeigja á þeim stad, hvar allir koma samǎn til ad lofa og veg-sama Gud opinberlega med bænum og lofsaungum.

Enn þá verdur nú spurníng: hvørninn fær søfnudurinn ad vita og gétur fundid hvad sýngja á: sérhvørn Messu-dag? Ad géta fundid hvørn Sálm, þegar madur veit hans upphaf eda No., þar til útheimtist ei annad, enn ad lesandi madur, (og adrir géta ei súngid á bók, þó allir sjáandi egi nú lesandi ad vera) fletti Sálminum upp í Sálma-upphafa Registrinu, ad-gæti tølu hans sjálfs eda bladsídu tølu og leiti hann svo upp eptir annarihvørri tølunni. Þe[illegible]

er samt ei ad dyljast, ad margur nockurnveginn lesandi, þeckir lítid til tøluſtafa, enn þótt hann á medan ecki megi lésandi heita, því ætti hlutadegendum, og einkanlega Prestum, umhugad vera ad láta børn og allt fólk venja sig strax á ad lesa rétt, ad minnsta kosti úr hverjum 3 tøluſtøfum; sem í bókinni fyrirkoma kunna vid Sálma- eda bladsídu-tølu, og æfa sig í ad fletta upp eptir hværutveggju, sem er sára audveld og fljótlærd ment, þegar ei heimtast meira, og krefst hafſakanlega til þolanlegrar lestrar kunnáttu, ei sídur hjá oss, enn øllum ødrum í þessum ríkjum.

Ad géfa søfnudinum til kynna fyrifram hvad syngja á, verdur hér, hvar reglulegir Djáknar ecki eru, Prestsins sjálfsøgd skylda. Þó þetta væri nú munnlega gjørt ádur enn til er tekid, gleymist Sálma-rødin og -talan, uppslettingin verdur sein og treg, og allir verda sjaldnast nálægir ádur enn Saungurinn byrjast. Ad skrifa Sálma-Númmerin eda -Upphøfin á spjøld, sem hángi í kirkjunni, verdur gagnlítid fjøldanum, sem ei les skrif, síst misjafna og daufa hønd, og hún sjest mjøg skammt frá. Tveir mátar syn-

sýnast þess vegna einúngis hértil hæfilegir: Sá fyrri er skilmerkilegur og jafnvel enn greidari, nefnilega: ad hverri kirkju séu af þeirra fjár-halds-mönnum eda sókninni einusinni útvegadar 2 stórar tré-töblur, hverra önnur hángi á björt-um og augljósum stad í kór, hin í fram-kirkju, og í stórum kirkjum mættu þær vel vera 4 alls. Hverri töblu sé deilt í 12 eda 14 rúm, med mjóum þver-rimlum, í þá sé ofan og nedan lít-id gróp, í hverju rennilokur mjóar af tré géti leikid, og verdi þeim innrennt til hlidar aptan verdt í gégnum rammann ödrumeginn, líkt og lokum á smáum skúffu-speiglum. Töblurnar og þver-rimlarnir ættu ad litast svartar, renni-lok-urnar hvítar, og á málud eda á pappír prentud med stóru letri sú fyri-ségn, sem eptirfylgjandi Töblu-form sýnir. Fremri partarnir, sem Fyr-irsagnirnar halda, mega standa sífelldt óum-breyttir ár eptir ár, en í hinu er rennilokun-um skipt í hérum þumlúngs-breida parta, á hverja stórir tölu-stafir, einn á hverja máladir, eda á pappír prentadir, límdir séu, og þeir tölu-stafir saman-settir á hverjum stad, sem útgjöra Núm-

mer

mer hvørs Sálms. Til þess ad vera byrg af øllum þeim tølum, sem á sama messu-degi kynnu í Sálmum á Númmer ad þurfa, ætti því hvør kirkja ad ega ein 30 stycki af hvørjum þeirra 10 tølu-stafa, og mundu bædi Fyrisaguirnar, og þessir tølu-stafir, 30 stycki af hvørjum, fást med mátulegri stærd prentadir á skrif-pappír, nóg í hvørjar 2 tøblur, fyrir 48 ß. hjá Lands-uppfrædíngar Félaginu, ef fyrir svo margar kirkjur væri í tíma umbedid, ad kostnadurinn tøluverdt léttist. Þó efumst vid eigi um, ad hjá sérlega gódum skrifurum gæti þetta med ýfrid feitum og stórum settleturs støfum fengist svo skrifad, med allra besta bleki, ad almúgi gæti bædi úr lesid, og sjed Sálma-Númmerin nockud frá. Hvør Tabla þyrfti ad vera 29 eda 30 þúml. á hæd milli ytri brúna, milli innri brúna 25 eda 26 þuml.; á breidd milli ytri brúna 18 þúml., milli innri 14, er þá Tøblu-rammanum allt um kríng ætlud 2ja þuml. breidd. Hennar form sjest hér á móti. Dæmid í henni hlýdir uppá 1ta Sunnudag í Júlíó, í gódu ári til lands og sjóar, þá Prestur med þacklæti minnist Guds ørlátu forsjónar fyrir oss, í rædu sinni: Fyr-

**Fyrir Prédikun er súngid:**

No. 200, 28, 29.

Vid Hjónavígslu, fyrir: No. 307.

— — — eptir: No. 310, 13.

I Prédikunar-stól: No. . . .

**Eptir Prédikun:** No. 34.

A undan Skirn: No. 208.

Eptir Skirn: No. 209.

A undan Altaris-gaungu: No. 212.

Um Utdeilingu: No. 217.

Eptir Utdeilingu: No. 218.

Utgaungu Sálmur: No. 272.

A undan Katekisatsíón: No. 314.

Eptir Katekisatsíón: No. 130.

I þessu hér ad framan standandi dæmi er gjört ráð fyrir hjóna-vígslu milli Pistils og Gudspjalls, er því Sálmurinn No. 13, sem valinn er til rædu-efnisins súnginn næst eptir Gudspjallid, og nú settur þar, sem tablan sýnir; annars, væri engin hjóna-vígsla, ætti ekkért No. ad standa í hennar tveimur töblu-rúmum, heldur nummerid þar audt, likt og í rúminu: I prédikunarstól, sjest, þar þá ecki er hátid; en þá ætti No. 13. og ad standa í sama rúmi, sem 28 og 29, næst eptir þau. Þá ecki er skírt, gengid til altaris edá katekiserad, standa þó allar fyrisagnirnar á sömu stødum, en Númmerin aud í þeim rúmum, og þá konfirmerad er, má taka fyrisagnirnar út úr þeim rúmum, flytja tveggja næstu rúma fyrisagnir upp í í þeirra stad, og Eptir prédikun, innsetja í 2 aud rúm, sem þarvid verda, tilhlýdilegar fyrisagnir og Númmer, fyrir og eins eptir Konfirmatsíón, eins og audskilid er, eptir Töblu-forminu.

Sidari mátinn, sem háttnefndur Biskup Dr. Balle rædur og þeim til, er heldur vilja, er ad sønnu andveldari og umstángs-minni, en

bs=

óvidkunnanlegri nockud í fyrstu, nefnilega: hvar ecki er færi á útvegun tablanna med fyrrnefndum gódum og skírum Fyrisøgnum og stóru letri og tølum, ad Djákninn eda Forsaungvarinn, (sem situr vid kór-staf) auglýsi í kór-dyrum hátt og skírt, hvørr Sálmur, edá einstakt súngid vers, eptir tølu hans eda þess í bókinni komi næst, ádur enn Sálms-upphaf sé birjad, já, nefni þar ecki einúngis hátt hans tølu, eda Númmer, heldur lesi vel hátt, seint og skírt hans fyrsta vers út, og segi, t. d.: Nú er súngid No. 198, hvørs 1ta vers (eda sé þad einstakt vers, sem) hljódar þanninn, og les svo versid. A medán sletti søfnudurinn upp, Númmerinu og Sálminum, hvørr í sinni bók, en þegar Forsaungvarinn hefir þad útlesid, birji hann þar standandi strax Sálminn, ellegar Prestúrinn innar frá, ef, og þegar hann sjálfur birjar.

6.) Þad er tilhlýdilegt og naudsýnlegt ad kirkjur séu vel bjartar, svo allir í þeim géti sjed til ad lesa og sýngja á bók, því er óskandi ad allir hlutadegandi kirkna fjárhalds-menn vildu láta sér annt um, hvar ábóta-vant vera kynni í þessum pósti, med hentugum gluggum ad reyna til ad fá þetta brádlega lagfært, en sérhvørr sóknar-madur á sídan ad koma í hvørt sinn med Sálma-bók þessa til messu, hvad einkum ætti sjálfsagdast ad

vera

vera og fyrst um alla, sem framvegis vilja sitja í kór, hvar ecki ega ad vera hefdar- heldur einúngis saungvara-sæti, en hvad á sá ad gjøra í kór, sem eckért hefir framvegis ad syngja á, og ecki kann Sálmana, nema þeigja og sitja þar edrum, er bók hafa og súngid géta, í vegi? fyrir aldrad fólk og illa sjáandi er þessi Messu-saungs- og Sálma-bók nú ásamt preutud med stóru nýju letri, og hjá Félaginu fáanleg. Vona menn og, ad sá ósidur afleggist brádlega, þegar nógar bækur nú fást og birtir í kirkjunum, sem sumstadar hefir, því midur! vidlodad, ad kórinn einn hefir súngid, en framkirkjan þagad, og nú í þess stad, ad allir finni sér jafnskyldt, konur og karlar, ad vegsama Gud í hans húsi med Sálmum og Lofsaungum.

Gódur Gud vyrdist ad leggja nád og heill til þessa Verks, svo ad vor Guds-þjónusta í kirkjum og heima-húsum megi verda honum til lofs og þócknunar, en oss sjálfum til æskilegustu nota, og framfara í sannri Gudrækni og Dygdum!

Lambastødum, þann 29da Júní 1801.

Geir Vídalín. M. Stephensen.

# Til Aðgætslu
við
# Messu-gjörð.

Eptir það samþykt er til Messu, ega Prestarnir að láta í kór-dyrum lesa á øllum Messu-døgum þessa bæn og Faðir vor á eptir:

Drottinn! eg er innkominn í þetta þitt heilaga hús, að heyra hvad þú, Guð faðir, minn Skapari! þú, Drottinn Jesú, minn frelsari! þú, verdugi heilagi Andi, minn huggari! í þínu orði vilt vid mig tala. Drottinn! opna þú svo med þínum heilaga Anda, fyrir Jesú Krists skuld, mitt hjarta, að eg kunni af prédikuninni læra, að bera ángur fyrir mínar syndir, í lífi og dauða trúa á Jesúm og daglega betra mig í dygdugu líferni og framferdi. Það heyri og bænheyri Gud fyrir Jesúm Krist, Amen! **Faðir vor!** 2c.

Strax að því búnu byrjast saunguriun, og framheldst tvo fyrstu Sálmana út, eptir Formálans visbendingu. Þegar þeir eru útsúngnir, snýr Presturinn sér að fólkinu og tónar:

**Drottinn sé með Yður!**

Forsaungvarinn og fólkið ansar:

**Og með þínum anda!**

Presturinn snýr ser aptur að Altarinu og tónar:

**Látum oss biðja:**

og síðan þá Collectu, sem deginum heyrir, eptir Handbókinni. Forsaungvarinn og fólkið ansar: Amen!

c) Þá

Þá snýr Presturinn ser fram að fólkinu og tónar: **Pistilinn skrifaði Postulinn** (sá sem Handbókin sýnir). En se Lectsían annarstaðar að finna, enn í Pistlum Postulanna, hagar Presturinn ser þar eptir og segir: **Þessi heilaga Lectsía stendur skrifuð í N. N. Spádómsbók, (eða) Postulanna Gjørningum, (eða) Opinber. bókinni**, eða eptir sem vel hljóðir þessu að umbreyta; tónar hann svo Pistilinn skírt og seint.

Eptir Pistilinn skal syngja þann Sálm, sem Presturinn, eptir Formálans vísbendingu, hefir hjer til valið í bókinni, en að honum búnum, snýr Presturinn ser fram og tónar:

**Drottinn sé með Yður!**

Forsaungvarinn og fólkið ansar:

**Og með þínum anda!**

Presturinn tónar svo:

**Eptirfylgjanda Guðspjall skrifaði Guðspjallamaðurinn** (sá sem Handbókin ávísar)

Forsaungvarinn og fólkið ansar:

**Guði sé lof og dýrð fyrir sinn gledilegann boðskap!**

Síðan tónar Presturinn Guðspjallið seint og greinilega til enda. Að því búnu er sunginn sá Sálmur, sem töblurnar tilvísa, hvar þær finnast, eða sem Presturinn hefir valið til í bókinni og fundið vel að hljóða uppá sitt ræðu-efni; við hans lok stígur Prestur í stól og heldur þar sína ræðu. Á hátíðum er sungið það vers, eða sá sálmur áður enn Guðspjall er lesið í predikunar-stól, sem Presturinn hefir hjer til valið, samqvæmt efni hans og tímunum, en ella ekkert. Eptir predikun syngist það vers, eða sá Sálmur, er Presturinn hefir þar til ætlað; en egi børn að skíra, eða konfirmera, eða opinber Aflausn að framfara, birjast þá strax og Prestur stígur úr

úr stól, þeir Sálmar eda þau vers, sem serhvørju af þessu hlýda, eptir þessari Messu-saungs bók og Prestsins fyrirmælum, og aflýkur hann þar eptir serhvørju af þessu. Séu nockrir til Altaris þann dag, er súngid versid No. 212, sídan snýr Presturinn ser fram og les eptirfylgjandi áminníngu til þeirra, er gánga til Altaris:

Sakir þess, mínir kjærustu Krists vinir! ad þér réttilega og maklega mættud medtaka það háleita Sakrament Qvøldmáltídar vors Drottins, þá ber ydur einkum þessa tvo hluti ad vita og skilja, sem er: hvad þér skulud trúa og gjøra, því ad þessum ordum, sem Kristur sagdi: það er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn, og, það er mitt blód, sem fyrir ydur úthellist, til fyrirgéfningar syndanna, skulud þér fullkomlega trúa, ad svo í sannleika er: þvíad Jesús Kristur er þar sannarlega sjálfur [illegible], med sínum líkama og blódi í Sakramentinu, eptir ordanna hljódun. Þar næst skulud þér og svo trúa Krists ordum, til syndanna fyrirgéfningar, það: ad Jesús Kristur skeinkti ydur og gaf sinn líkama og blód, til innsiglis og stadfestingar uppá allra ydar synda fyrirgéfningu. Ad sídustu skulud þér fyllilega gjøra Krists skipun, þar hann svo býdur ydur, segjandi: medtakid og etid; sømuleidis dreckid hér af allir; og gjørid það í mína minníngu; því hann hefir géfid oss sinn líkama og blód ad eta og drecka til fyririrgéfningar syndanna, og þar med ad minnast hans heilaga dauda og pínu. Þar fyrir, þegar þér svo trúid þessum Krists ordum; og gjørid eptir hans

skipun, þá eruð þér rétt prófaðir og reyndir, sem Postulinn Páll segir, og megið svo maklega eta Krists líkama og drecká hans blóð, til fyrirgéfningar syndanna. Þar til géfi yður Guð himneskur faðir síns heilaga Anda náð, fyrir hann sama Jesúm Krist vorn Herra; og þar um viljum vér allir Guð biðja af hjarta og segja:

Þegar sú áminníng er útlesin, snýr Prestyrinn sér að altarinu og tónar skírt og seint eptirfylgjandi bæn:

Látum oss biðja:

Faðir vor! þú sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni. Géf oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum. Og eigi leið þú oss í freistni. Heldur frelsa oss frá illu.

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

Svo tekur Prestrinn Pátínuna með brauðinu sér í hönd á, meðan hann tónar eptirfylgjandi Innsetníngarorð:

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þackir og braut það, og gaf sínum Lærisveinum og sagði: takið og etið! það er minn líkami, sem fyrir yður verður géfinn. Gjörið það í mína minníngu.

Því nærst tekur Prestrinn Kaleikinn ser í hønd, og tónar hin Testamentis ordin, segjandi:

Sømuleidis eptir Qvøldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjordi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir héraf! þad er káleikur hins nýja Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthellist, til fyrirgéfníngar syndanna. Gjørid þetta, svo opt sem þér þad dreckid, í mína minníngu.

Seu fleiri til altaris í einu enn ad kaleikurinn á-skenktur endist þeim, leggur hann høndina á medan hann þetta tónar til skipta á kalcikinn, og á þær vínfløskur, sem á Altarinu standa, ellegar les sømu ord lágt upp aptur í hvørt sinn braud eda vín þrýtur á pátínu eda kaleik, med sømu adferd.

A medan Prestrinn þar eptir útdeilir, segir hann vid serhvørn, er Sakramentid medtekur: Þetta er Jesú sannur líkami; Þetta er Jesú sannarlegt blód! Og um Utdeilínguna sýngur Forsaungvarinn og fólkid þá Altaris-gaungu Sálma, sem Prestrinn hefir fyrirlagt, þó ei lengra af þeim, enn versid sem á stendur, þegar útdeilíngin er búin. Þar eptir sýngist versid No. 218; ad því endudu snýr Prestrinn ser fram og tónar:

Drottinn sé med Ydur!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar;

Og med þínum Anda!

Því nærst snýr hann ser ad Altarinu og tónar eptirfylgjandi bæn:

## Látum oss biðja:

Vér þøkkum þér, Drottinn almáttugi og eilífi Guð! að þú með þessari heilsusamlegri gjøf hefir oss alla nært: vér biðjum þína miskunsemi: að þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gágns og góða, og til vorrar sannrar trúarstyrkingar á þér, og til brennanda kjærleika og elsku á meðal vor innbyrðis; fyrir sakir nafns þíns elskulegasta sonar Jesú Krists, vors Drottins og Herra.

Forsaungvarinn og Fólkið svarar: Amen!

Þegar enginn er til Altaris, tónar Presturinn í stað þeirrar bænar, eptirfylgjandi bæn:

## Látum oss biðja:

O Herra Guð, himneski Faðir! vér þøkkum þér fyrir þenna þinn føðurlegann velgjørning, að þú af þinni støru náð og miskunsemi, hefir gefið oss þitt heilaga og sáluhjálplega orð, með hvørju þú og svo hér hjá oss safnar þinni kristilegri kirkju. Vér biðjum þig auðmjúklega: gef oss þinn heilaga Anda, að vér með þacklátu hjarta, mættum taka við því, og hegða oss þar eptir, og ætíð og ydduglega fara varandi í kristilegri trú og kjærleikanum, og svo loksins sáluhólpnir verða, fyrir þinn elskulegann Son, Jesúm Krist vorn Drottinn, sem með þér lifir og ríkir í einíngu heilags Anda, sannur Guð frá eilífð til eilífðar!

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

En

En um alla Lánga-føstu, skal í þessarar bænar stad, á Sunnu- og Bæna-døgum tóna þessa bæn:

Látum oss bidjá:

Vér þøckum þér, Gud fadir! ad þú hefir gefid oss þinn eingetinn son Jesúm Krist, uppá þad, ad allir þeir, sem á hann trúa, ecki fyrirfarist, heldur hafi eilíft líf. Vér þøckum þér, Jesú Kristi! ad þú hefir borid vorar syndir á þínum líkama, og med þinni pínu afmád vorar yfirtrodslur. Vér þøckum þér, þú verdugi heilagi Andi! ad þú hefir gefid oss þá trú í vor hjørtu, ad vér eckert vitum annad til sáluhjálpar, enn þann krossfesta Jesúm Krist. Gef oss, ó Gud! þína nád, ad vér fullkomlega trúum, ad allar vorar syndir séu fyrir Jesú pínu og dauda krapt oss fyrirgefnar. Upplýs oss med þínum heilaga Anda, ad vér fyrir Jesú dauda, daglega afleggjum syndina, og aldrei sleppum Jesú úr vorum hjørtum, þángad til vér sjáum hann berlega í eilífu lífi. Þessa bidjum vér þig allir í nafni Jesú Krists, vors Herra.

Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

Þá snýr Presturinn sér fram og tónar:

Drottinn sé med Ydur!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar:

Og med þínum Anda!

Sidan blessar hann yfir Fólkid og tónar:

Drottinn blessi þig og vardveiti þig! Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig, og sé þér nádugur! Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig, og gefi þér frid!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

Þegar konfirmerad er, tónar Prestúrinn ecki þessi blessunar-ord fyrr, enn Konfirmatsíónin er búin.

Sídan er sá Utgaungu-Sálmur súnginn, sem Prestúrinn hefir valid, hlýdandi uppá rædu-efni hans. Af undan Katekisatsíón er súngid No. 312, eda 313, og eptir Katekisatsíón No. 130 eda 314. Endast svo Embættis-gjørdin med eptirfylgjandi bæn, sem lesin er í kór-dyrum, og Fadir vor.

Drottinn! eg þacka þér af øllu mínu hjarta, ad þú hefir nú kennt mér, hvad þú vilt, ad eg skuli gjøra. Hjálpa mér nú, minn Gud! med þínum heilaga Anda, fyrir sakir Jesú Krists, ad eg megi vardveita þitt ord í hreinu hjarta, og þar af styrkjast í trúnni, í gudrækilegu framferdi betrast, og mig þar vid í lífi og dauda hugga. Amen!

Fadir vor! rc.

---

Inni-

# Innihald Sálmanna.

## I. Lofgjørdar og Packlætis-Sálmar.



## II. Bænar-Sálmar.

a) Fyr-

## III. Sálmar til vissra Tíma.



b.) Ept-

---

# I. Lofgjørdar og Þacklætis Sálmar.

## 1. Guds Vera og Eginlegleikar.

### No. 1.

Lagid: Vjer trúum allir á einn Gud, skap. him.

Vér trúum allir á einn Gud; er hans verk himin og jørdin; ástrikur Fadir er vór Gud; ætt hans manneskjan er ordin. Hann vill oss vort uppheldi veita, vel ad sál' og lifi gæta; ei lætur ólucku rata, engum vóda megnar því mæta. A hann vér setjum von og traust, því vís hann er, máttugur, gódur endalaust.

2. Vér trúum og á Jesúm Krist, eingétinn Guds Son vorn Herra; á heims Frelsarann Herrann Krist, hvers dýrd aldrei kann ad þverra. Madur ordinn hann er, hafinn hardt á krossstré, daudur, grafinn. En hann ríkir æ lifandi, upp hjá Dróttins hægri hendi; þadan med krapti kémur hann, kémur ad dæma jardríkid og sérhvørn mann.

 3. Vér

3. Vér trúum á Anda heilagann, af Fødur og Syni sendann. Oss frædir, styrkir, huggar hann, helga bæn til Guds sér kennda. Krists um heiminn kenníng' breidir, kjært til apturhvarfs menn leidir; einninn trúna eblir rètta, og von betra lífs enn þetta, hvar edlast munum føgnud, frid, og fullsælu þá, er um eilífd varir vid.

## No. 2.

## Te Deum.

Lagid: Kom Skapari, heilagi Andi.

Hér, mikli Gud! sé mesti prís, vor mildi Gud! vèr þøckum þér; hverr er svo sem þú hát og vís? hverr svo sem þú frá eilífd er?

2. Kerúbim hátt þitt heidra nafn, hátt þèr Serafim róma dýrd; útvaldra líka sálna safn, samhljómar þinni engla hyrd.

3. Heilagur ertú, Herra klár! heiløgust vera sí-lofud, heilagur Gud um eilíf ár, allsherjar Drottinn og vor Gud.

4. Lof þitt frá hærstum himna-kór, hljómar um alla vída jørd, Spámanna hópur hefir stór, heidrad þitt nafn med þackargjørd.

5. Postular hafa prísad þad, og píslarvotta mergdin flest, á dauda-stundu dádust ad, dásemdar verkum þínum best.

6. Þig heiløg kristnin, herra Gud! heidra um tíd og eilífd má, þig, Fadir! sem ert sannur Gud, Son, er í dýrd þèr lifir hjá.

7. Og

7. Og gódann helgann Anda þinn, oss sem vid rètta heldur trú; heidri þig jørd og himininn, hljómi lofgiørd um eilífd sú!

8. O Jesú! Guds Son eingètinn, er lærdóm sannann kènndir oss, ljósid og fridinn leiddir inn, og lífsins betra vonar hnoss.

9. Frá daudans leystur dróma nú, vid Drottins hægri situr hønd, aptur munt skodast af oss þú, ell þegar dæmir jardar lønd.

10. Hjálp' oss, hjálp' oss, vor huggun vert, hefir þú sjálfur keypt oss dýrt, med ordi sannleiks æ þú sèrt óbrygdult ljós, er fál' oss stýrt.

11. Blessa þú líf og sál' í senn, sídar arf himna lát oss fá, krýn blessun alla kristna menn, og kynid sèrhvert jørdu á.

12. Svo fridinn, rèttinn, sannleik, trú, sèrhver vel geymi heimsins þjód, allir þèr þjóni æ og nú, eindrægni haldi skynsemd gód.

13. O! mikli Gud! vèr þøckum þèr, þèr, mildi Gud! vèr syngjum prís, hvørr svo sem þú ad hátign er? hvørr er, sem þú, í øllu vís?

14. Til þín, til þín, vort traust er allt, um tíma' og eilífd svo sem nú, heyr þú vorn saung, bænheyr ávallt, huga vorn styrk í von og trú.

## No. 3.

Med sínu lagi.

Heidur sè Gudi himnum á, og hærst lof fyrir nád sína, allt vel tilbjó hans vitskan há, verkin dásamleg skína, syndugri jørd frid senda

vann, sitt hlýdid fólk æ lætur hann, sína miskun sjá og reyna.

2. Vér lofum, dýrkum og þøckum þér, þig tilbidjum alleina; vald þitt, Gud Fadir! eilíft ær, aldrei kann þad ad réna; svo er þín makt ómælileg, algjört er allt hvad þér er í hug, vel er þeim í trú þér þéna!

3. O Jesú, Guds eingétinn Son! athvarf og líknin manna! þú bættir allt vort andar tjón, eymd vora virdtist kanna. Lausnari! er daudann leidst á kross, líknsamur sért þú øllum oss, leid oss veg til lífsins sanna.

4. Heilagi Andi! hjálpin trú, huggarinn allra besti, frá heimsins svikum forda þú, fólki, sem Jesús leysti, med sárum dauda' og dapri pín. Drottinn! vardveit þú kristni þín, sem af hjarta á þig treystir.

## No. 4.

Lagid: Upp, uppstatt í nafni Jesú.

Um Gud eg sýng, því sýng eg frór, sá er vor mikli Gud, og herra hár; hans heiti er Drottinn, hans verk stór, himna gjørvallra' um vídd, hans veldi går; Alvaldur vill, veröld hvør fær sinn stad, til verdur full med fjøri, sem hann qvad.

2. Hann býdur, aptur hverfa þá himnar vid bending' hans, sitt eckert í; ljós er hans skrúdi; skírt kann sjá sképnuna', hid besta veit, ad velja því; Gud stjórna-réd, stóls hans er hátign bygd, rèksamri med réttvísi' og sannleiks trygd.

4. Lán og hyggindi ef kénast mér, lát mig þá gjøf vel nota hér; blessa þú mér það bytta allt, við brúkun rétta þess mér haldt, mér til heilla í hvørt eitt sinn og hjálpar við náunga minn.

5. Falli sorg og mótlæti á mig, minn Guð! kalla eg strax á þig; því øruggt hæli ertú mér, alla eg byggi von á þér, neyð og andstreymi frelsa frá, Faðir! í náð mig littú á!

6. Lokstins þá jörðu ekkert á, orkar mér framar ró að fá, þegar sem fyrir sjónum mér, sortna við grafar barminn fer, énda þá mína alla neyð, ó Faðir kjær! með sælum deyð.

## No. 205.

Lagið: Svo elskaði Guð aumann heim.

Ó Guð! eg kém fyrir augsjón þér, aumum best líkna vyrðstú mér; øll gési brot og illverk qvitt, ó Guð! náð og þolgjæði þitt.

2. Hreint skapa, Faðir! hjarta í mér, hjarta fullt ótta og elsku á þér, hjarta þøck, auðmjúkt, heiðrun fyllt, hjarta jafnan rósamt og stillt.

3. Verndarinn háska vertú minn! vona eg á þig, minn Talltrúinn! skyldi ófall nockurt skelfa mig, skyli mér hend þín góðgjörnlig.

4. Þitt nafn sé æ fyrir augum mér, ønd mín svo fagnuð hafi í þér, við mína að géti eg gladt mig trú, géf í ást æ sé kreptug sú.

5. Hvað þú mér kénnir heill mín er, heill sé það mín að eg, sem ber, um fram allt stundi orðin þín, alla trúr ræki skyldu mín.

6. Allt

6. Allt ofveikt krápta minna' er megn, mínum girndum ad strída' í gégn, þú kannt íklæda krapti mig, eg kánn allt sigra fyrir þig.

7. Heims þessa'af gjædum géf þú mér, Gud! svo mikid sem líkar þér; hóflegann skamt géf þín-um þjón, þó blessa ydju' hans og von.

8. Ef hønd þín gnótt mér géfur ør, géf þau hóssamur brúki'eg kjør, og med gódvild af gnægt-um þín, gledji fátæka brædur mín.

9. Einlægann géf mér ástvin þann, óhulr hverjum eg trúa kann, hverr med mér stundi'ad hlýdnast þér, huggun, rád, dæmi géfi mér.

10. Ef ad þín gjædska ætlar mér, æfi-skeid lengra' í verøld hér; øllu, Fadir ástkjæri! rád, aldradann svipt ei þinni nád.

11. Og þá lífs endi loks ad fer, líkn þín mig taki bést ad sér, minn skjøldur, hlíf, og mikil laun, minn Gud! þá vert' fyrir Krist þinn son!

## No. 206.

Med sinu lagi.

O! Gud vor fadir! sem í himnaríki ert, þátt yfir oss í anda mest, vilt því tilbedinn verda: helgasta nafn þitt hjá oss verdi opinbert, heidrad og lofad allra best, á himni og á jørdu; þitt nád-ar-ríki komi hér; kénn oss í því ad lifa, og hvad sem ecki þócknast þér, þar frá vyrdst' oss ad hlífa, svo æfinlega ødlumst vér, í þínu ríki' ad blífa.

2. Voldugi Gud! þinn vilji verdi jørdu á, vel jafnan og á øllaun veg, eins og í himnaríki;

því þar kann enginn standast, eda koma má, utan þinn vilja ydki mjøg, og lisi svo þèr liki. Vort daglegt braud oss veit þú nú; vora sál endurnæra lát þitt fridar=ord, frá oss snú fals=kènnîng', en þad læra, hvar med þú oss á helga trú og hjálpar veg vilt færa.

3. Forlát oss vora miklu skuld og marga synd, módgum vèr þar med jafnan þig, þær vyrdstú' af oss ad taka; svo sem vèr fyrirgèfum þeim af gódri lund, sem gjørdu' oss mót og styggdu mjøg, ei viljum þá ásaka, í freistni þú oss ecki leid, á ránganu veg svo víki; heldur frels' oss af allri neyd; athøfn vor gèf þèr liki; upplys og helga oss þinu lyd, ad erfum vèr þitt ríki!

## 7. Skírn og Qvøldmáltíd.

### a.) Aundan Skírn.

### No. 207.

Lagid: Haldt' oss, Gud! vid þitt hreina ord.

Svo elskadi Gud aumann heim, ad einka son sinn gaf hann þeim, ad allir sem trúa á hann einn, eilíft líf hafi', ei tapist neinn.

2. Jesús Kristur vor herra kjær, kom í heiminn ad frelsumst vær; sínum Postulum sjálfur hann, sagdi hjálprædis lærdóm þann.

3. Endursæddur sá ecki er, af vatni og Guds anda hèr, í Guds ríki kann ecki sá inn ad gánga og þad ad sjá.

4. Því farid út um allann heim til allra þjóda, kénnid þeim fridar-lærdóm og fegnud þann: fullnadar lausn eg øllum vann.

5. Hverjir sem þyggja þessi ráð, þeim skulud veita skírnar-náð, í nafni fødurs og sonar og anda Guds, sem allt helgar.

6. Eins sem eg hefi ydur sett, allt kénnid þeim ad halda rétt, í trú, kjærleika' og kristnum sid, gvøl og hørmúng ei skelfist vid.

7. Vor herra Jesú! vardveit þú, veika kristni í réttri trú; leys oss frá allri andar-neyd, í himna frid og fegnud leid.

## No. 208.

Lagid: Heidrum vjer Gud af hug' og sál.

Vor Gud heilagi herra! þér, heidur og prís um eilífd ber, von sáluhjálpar veittir þú í vorri skírn, þig biðjum nú: hjálpa oss, Fadir! fyrir þér fram ad gánga sem skírdum ber, hólpnir allir svo verdum vér!

---

### b.) Eptir Skírn.

## No. 209.

Lagid: Jesú þínar opnu undir. (sjá No. 40 bls. 40.)

Fadir, sonur og fridar-andi! fót minn leiddu hrøsun frá, skírnar-heit svo vel eg vandi, dyrdstá náð og styrk mér ljá, ad lifa svo ad líki þér, líf á medan veitist mér, uns á himnum fæ eg finna fegnud, medal barna þinna!

## No. 210.

Lagid: Haldt' oss, Gud! vid þitt hreina ord.

Þetta barn þer befalad ss, blidi Jesú! vor Lausnare; i þina kristni þad innleid, þyrm og frelsa frá allri neyd.

2. Ætid hlif þvi med adstod þin, frá ólucku, flisum og pin; med þinni ást og mildri nád, miskuna þvi og blessa þad.

3. Veit þvi med aldri vort og svekt, ad verdi hlýdid þer og þeckt, og lifi svo i heimi her, ad himneska fái dýrd hjá þer.

## No. 211.

Lagid: Hvorr sem ad reisir hæga bygd.

Allir foreldrar, ó Gud! magn og adstod hjá þer sinni, sinna afqvæma sálar-gagn, svo stunda' i veröldinni, ad segja kunni sidar meir; sjá nú, Drottinn! her em og þeir, mer gafst af mildi þinni!

## a.) A undan Altarisgaungu.

## No. 212.

Lagid: Hvorr sem ad reisir hæga bygd.

Minn Gud! þú sjer og þeckir nú, þad allt mitt hjarta bidur. Sjá! þitt, i audmýkt, ást og trú, altari krýp eg vidur; sálar helg-laugun se her min, sameinud nád og blessun þin enkist þá minn andar fridur.

b.) Um

## b.) Um Utdeilingu.

### No. 213.

Lagid: Jesú! þín minning mjøg sæt er.

Hvad gódgjarn ertú, Kristur kjær! er kallar oss þínu bordi nær, sameinadir hér sofnumst vér, ad sækja styrk og traust hjá þér.

2. Þú vilt oss sjálfur vera hjá, vér skylum eins og bod þín tjá, minnast á kjærleik mikla þinn ad máltid þessari, Drottinn minn!

3. Vér hlýdnumst þessu hvørt eitt sinn, því, herra Jesú! fadir þinn, verøld elskadi og veslann mig, verøldinni því gaf hann þig.

4. Elskan þín var svo undra há, ad daudann leidstú krossi á; dóst fyrir brædur þína þú, þínir hvørs brædur minnast nú.

5. Þitt líf og daudi þanninn hjó, þínum fridkeyptu sálar-ró. Æ veittú oss med dygd og dád, dýrmæta þá ad mikla nád!

6. Blessadú, Jesú! oss þitt ord, oss blessa vid þitt nádar-bord! opinberlega allir hér, í ást og trú sameinumst þér.

7. Eins og fadirinn eitt med þér, allir gef þú ad séum vér, og hjartanlega elskum hann, elskum þig sem oss leysa vann.

8. Fyrir þig vill vor fadir þá, fødurlega oss gjædsku tjá, og af nád gott uppfylla þad, er hvørr einn um ad réttu bad.

9. Á þig tráum og vónum vær, vert oss med líkn og huggun nær, í lífi og dauda hlýdnum hér, hjálpa oss til ad fylgja þér.

 10. Æ!

10. Æ! þá skyldu eg illa braut, eilífann vaða þar af hlaut. Son Guðs! þinn dómur sannur er: syndugir standast ei hjá þér.

11. Elska viðqvæmust þrýsti þér, þjáníng og písl að líða hér, að þínum dygða unnum síð, allir syndirnar skiljumst við.

12. Blessaði Drottinn besti! þú, blessa enn vora fundi nú, svo leitum alls hjá einum þér, andlega sem oss farsæld ljer.

13. Við æfi lokið stutta stig, styrk oss, Drottinn! vér biðjum þig, með vissu náðar þinnar, þá þreyttir leysumst vér héðan frá.

14. Hallelúja, vor góði Guð! geyma viljum vér öll þín boð, þér einum kémur frelsið frá, frá þér, vor Guð! Hallelúja.

## No. 214.

Lagið: Jesú! þín minning mjög sæt er.

Auðmjúk nálægir endin mín, ó Jesú Kristur! sig til þín, og minnist skipun eptir þín, á dauða þinn og bitru pín.

2. Elska var það sem þrýsti þér, þjáníng og písl að líða hér, hneigðu burtdóstú hefði með hjálpraði féckstú mönnum tjeð.

3. Tapaðra ecki telu í, trúi'eg framar að verða því, Guð, þinn faðir, vill fyrir þig, Frelsari Jesú! náða mig.

4. Mín sál trúir og finnur frið, fastlega jafnan gleðst þar við, Jesú! eg með þér jarðast á, jörðunni mun þó rísa frá

5. Fyrir þinn kjærleik þacka' eg þér, þjáníng' leidstú til frelsis mér. O! lát forgefins aldrei mig, um þína hugsa pínu' og þig.

6. Uppá margreynda elsku þín, óhult sig reidir sálin mín, gnægd þinnar nádar gefi mér gódfýsi til ad hlýdnast þér!

7. Aformid þad, sem eg hef nú, eptir ad fylgja þér, Jesú! hvert sem mér gengur med eda mót, mín sé laungun af hjartans rót.

8. Og þó eg villist eitthvert sinn, yfirgef mig ei, Drottinn minn! á réttann aptur stig mig styd, stødugt á sama haldt mér vid!

9. Veitstú best, Jesú! vanmátt minn, veit, ad eg geymi lærdóm þinn, þegar ad høndum þjáníng ber, þolgjædi þitt sé dæmid mér.

10. Med eptirlaungun ønding mín, upplyptir, Jesú! sér til þín; um þinna bøda leid mig leid, lífsins á medan renn eg skeid.

## No. 215.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Eg køm, ó Herra'! og eptir þér, af ángri mæddur leita; vyrdstú því enn af misskun mér, mildi og nád ad veita; ad þínum kropinn er eg trón, ó! þú Guds og mannsins son! hjartad mitt nú hughreystu! syndanna ángur særir mig; sál mína frida', eg trúi' á þig, einn med þeim endurleystu.

2. I lifandi trú eg leita'ad þér, sem léttir synda byrdum; vor syndasekt afplánud er, ad þar med Guds børn yrdum. Um hørmúng þína

hugsa' eg nú, og hjálp er mønnum veittir þú, mín heill er af þér ordin, þá fyri mig þú fórnadir þér, fedurnum gédþeck aptur er, øll endurleysta jørdin.

3. Gled þig því hjarta mitt í mér, misverk þín bætt hann hefir, nád þér og mildi mestu hér, í máltíd sinni géfur; ef hrópar, þinni' hann ansar bón: "í huga styrkur vert, minn son! qvitt "skulu brot þín blifa, uppá minn reida átt þig "deyd, ætíd skaltú, þeim fyrir þig leid, med hreinu "hjarta lifa.

4. "Þér géfst hjálprædi' og heillin nú, yfir "heuni'í trú skalt vaka; fyrir óvarúd ei lát þú, "þinn æru=krans burt=taka. Sjá! hér eg mig "innlifa þér, eg er vín=tréd, blíf á mér; æ skaltú "ávøxt bera; eg vil hughreysta' og ebla þig, fyrir "elskn þína og trú vid mig, sigur sæll víst skalt' "vera."

5. Herra! þín bod eru' heillin mín, halda þau lát mig feginn, veit, fyrir dauda' og verk øll þín, sá vilji styrkjast megi, en upp frá þessu unntú mér, allt mitt hjarta ad géfa þér, þinn dauda þacka' og prísa; lát mig svo helgun æfast' í, og endurbótar verkin ný, medan lifi auglýsa.

## No. 216.

Lagid: Jesú! þín minning mjøg sæt er.

Vid þína nádar máltíd mér, mæta býdur þú, Jesú! hér, svo ad eins og þú manst til mín, minnast skuli eg einninn þín.

2. Heim=

2. Heimur mig því hindradi frá, hans glis eg framar stundad' á, hvad opt freistar mín hold og blód, ad halda af réttri gjæfu sjód!

3. Æ! þá eg gleymi þinni nád, og þad til góds hef veika dád, gjætir ei skyldu gleymskan blind, glæpugur bæti'eg synd á synd.

4. Æ! hjálpa mér, rétt hyggja'ad því, hvørninn þú umgéckst veröld í; þá missir veröld mitt afhald, missir þá syndin krapt og vald.

5. En þad eg braut þér ávallt mót, ángrar mig nú af hjartans rót. Æ! skyldi'eg verá vinur þinn, veikann, hvikulann mig, sem finn?

6. Já, í von þori jeg og trú, Jesú þinu ad minnast nú. Skal hann ei minnast mín, sem þó, mig fyrir sekann leid og dó?

7. Komi nú þúnga þjádur hér, og þreyttur hingad komi hverr. Þeir ødlast frid sem trúa traust, og trega syndir hræsnislaust.

8. Uppá þín kém eg egin ord, og mæti, Jesú! vid þitt bord; bænheyr míns hjarta harma-raust! hjá þér, á þér er allt mitt traust!

9. Géf oss ad minnast ætíd á, endurlausn, sem þér fengum hjá! géf oss, Herra! á himnum stad hjá þér, af miskun bænheyr þad!

## No. 217.

Lagid: Kriste! vjer allir þockum þier.

Frelsari gódi! fyri þitt bord, framkrýp eg þessu sinni, þína pínu og efftu ord, audmjúkur hefi'í minni; nafn þitt vegsama vil eg hér, vera má hverr sem treystir þér, fullvíss ad miskun finni.

2. Er eg þess verdur ad þá náð, ó Jesú! reyna fái? elska eg þig af allri dáð, umbót svo vinna nái? er mín trú þér svo þócknanleg, þad uppriſinn á ſídan eg, dýrd þína, ſon Guds! ſjái?

3. Þú ranſakar og þeckir mig, þú veitſt af gleymſku minni; oftſkjaldan minniſt eg á þig í hrigd og velgengninni. Æ! hvad dárleg mín illſkan er! eg veikur treyſti, Jesú! þér, ad fyrirgéfning finni.

4. Medtaktú, Drottinn! mína trú, medtak þad heit eg gjørdi! helgiſt þér allt mitt hjarta nú, helgiſt þér mitt framferdi; ſjálfur þér mína ſálu prýd, ſvo eg maklegur alla tíd, Guds Son! þinn géſtur verdi.

5. Þú, ſem í minníng þína hér, þeſſa baudſt oſs ad neyta, ſvo allir jafnan ætmim vér, eptir þér, Jesú! breyta, láttú oſs þanninn lifad fá, ad lærdóm þinn vér ſtundum á; vyrdſtú krapt þartil veita!

---

Minnſtú, ó madur! á minn deyd. Sjá No. 76. og fleiri ad framan prentadir Sálmar um Jesú Pínu og Dauda. No. 70, 74-75.

---

## c.) Eptir Utdeilingu.

## No. 218.

Lagid: Jesú Pínar opnu undir. (ſjá No. 40 bls. 40.)

Jesú! ſem ad daudann deyddir, og daudlegum gafſt lífid mér; þú ad bordi lífs mig leiddir, lauſnar pantur fenginn er; ebl þú mína áſt

og trú, auk mér sálar-rósemd nú; þig' mitt lífið heiðri' í heimi, hjálp veit, þér eg aldrei gleymi!

## 8. Dauðinn, Upprisan, Dómurinn.

### No. 219.

Lagið: Hvörr sem ljúfann Guð lætur ráða. (sjá No. 64 bls. 57.)

Hverr veit hvað fjærri' er æfi endi? ódfluga tíminn burtu fer; brádlega máské beri' að hendi, burtfarar kallið dauðans mér. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deyja géf þú mér vel og rótt!

2. Máské í nótt þú munir kalla, mína sál í eilífðar-rann, og hreisið líkhams fyrri falla, enn fela sólu hafið kann. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deyja géf þú mér vel og rótt!

3. Kénn mér þá vitsku, vel svo telja vegferðar minnar daga hér, að þinn eg stundi veg að velja, vakni til sælu' og lífs hjá þér. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deyja géf þú mér vel og rótt!

4. Við elsku heimsins unn mér vára, æ mínu hjarta'að taka á, þegar þú kallar, þori'eg svara þá: mig tilbúinn, Herra! sjá. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deyja géf þú mér vel og rótt!

5. Veit þú að enginn hlutur hrífi hjártað mitt þínum ótta frá! öll skal mín vera lyst í lífi, líka í dauða von þér á. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deyja géf þú mér vel og rótt! 6.

6. Byrdstú med Krists verdskúldun hylja vel mínar syndir, Fadir kjær! þeim sem ydrast og vanda vilja verk sín, miskunin æ er nær. O Gud! þá daudans dregst ad nótt, deyja gef þú mér vel og rótt!

7. Komi því minnar æfi endi! eg af heiminum gladur fer, á míns Frelsara fund eg vendi, finn þig, ó Gud! nádugann mér; en þegar daudans dregst ad nótt, deyja gef þú mér vel og rótt!

## No. 220.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Hvørsu mig leysast lángar, lifandi Gud! þú sjer, og frá holds fiötrum gánga, í frelsi mitt hjá þér. Ef finn eg ángist eina, ótalfaldt vel og vei, harm sál og hjartad reyna, hægist þeim nær eg dey.

2. Fús heli fáng eg breidi, fæla mig þad ei kann, fyrst Jesús Drottinn deydi, dyr lífs sem opna vann. Nær Gud svo vill mér vegni, viljugt og dey med þel; hans kalli gladur eg gegni; gott er ad deyja vel.

3. Allt þó mér veita vildi verøld ágjæti sitt, en eg hér ei vidskildi, óhapp þad væri mitt. Á himnum allt er betra, eg fágna þegar má, fara til fedra setra, fyrr kommum búa hjá.

4. Min burtfør máské græti, mér léntra vina gédi, og þeir, eg vid skil, væti veinandi minn nábedz ef daudinn út mig kallar, øblug sú huggun er: þá finn eg aptur alla, sem ástkjærir vóru mér.

5. I

5. Í strídi' ens stránga dauða, styrk veittu, Fadir! mér; lát beli linna nauda lífs-neyd þá hættust er; svali, nær sídarst anda, sáluinni fridur þinn, þá sendri þér til handa, þæg verdur burtförin.

## No. 221.

Lagid: Hvørr sem ljúfann Gud lætur ráda. (sjá No. 64 bls. 57.)

Æ! vøknum, daudinn ádur enn kallar, oss á óvæntri hédan stund; aldradir bædi og úngir falla, í sótt og hraustir hels í blund. Sin afdrif fyrir enginn sjer, ætíd vidbúinn sæll því er!

## No. 222.

Lagid: Uppá sjállid Jesús vendi.

Gladur hédan vil eg venda, vært í jardar skaut á ný, neyd med lífi ná mun enda, næsta feginn verd eg því, andnist mér ad lyktum lenda, líknar-høndum Drottins í.

2. Hvad má framar auka ótta? eg med ró vil daudann sjá, sem úr lífs mig færir flótta, til Frelsarans, hvørn ad vin eg á; sál, vid ádfør andláts nóttar, í Guds vernd sig fela má.

3. Sá fullkomnad hér allt hefir, hann mun annast líf mitt hér, Jesú! styrk þin giædska gefi, til grafar trúr eg reynist þér, vel vidbúinn, kjært þá krefur, kallid daudans end af mér!

## No. 223.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Kristi! er lést á krossi lífid, og krapti med þad aptur tókst, dauda míns ad duga í

kisi, dád og krapta þú mér jókst; hel fær grandád hvørgi mér, ef hlýdnast eg og treysti þér; mig í trú sem fær þín feta, flytur þad til lífsins betra.

2. Lífsins fjør þá magnlaust mædist, mér grøf opnar kjøltu sín, ógnun daudans hvørgi hrædist, horfi'eg gladur upp til þín, fel óqvídinn frelsta ønd, Frelsari minn! í þina hønd, feta helstig fúsu gédi, fullur af huggun, von og gledi.

3. Þú ert, Drottinn! ljós og lífid, líkn og traust er ordid þitt; þú mér hefir heit þad géfid, ad hold einúngis rotni mitt; í vegsemd eg upp mun stá, ávallt fremd í dygdum ná; ávallt krøptum ædri safna, engu má vid sæld þá jafna.

## No. 224.

Lagid: Gjædsku Guds vjer prísum.

Sjá Jesú! vegferd vora, umvafda hættu' og þrá; veit oss varlega'ad fara, vertú oss ætíd hjá, óhult um daudans dal, vér svo braut þúnga þreytum, þér loks í gledi mætum, og fyllum frelstra tal.

## No. 225.

Med sínu lagi.

Allt eins og blómstrid elna, uppvex á sléttri grund, fagurt med frjófgun hreina, fyrst um dags morgun-stund, á snøggu auga-bragdi, afskorid verdur fljótt, lit og blød nidur lagdi, líf mannlegt endast skjótt.

2. Svo hleypur æskan únga, óvissa daudans leid, sem aldur og ellin þúnga, allt rennur

ſama ſkeid. Innſigli engir fengu, uppá lífs-ſtunda bid, en þann koſt undirgengu allir ad ſkil-jaſt vid.

3. Daudinn má ſvo med ſanni, ſamlíkjaſt þykir mér, ſlíngum þeim ſláttumanni, er ſlær allt hvad fyrir er, grøſin og jurtir grænar, glóandi blómſtrid frídt; reyr, ſtør og róſir vænar, reikn-ar hann jafn-fánýtt.

4. Lífid manns hradt framhleypur, hefir þad enga bid, í daudans grimmar greypur, grøfin tekur þar vid; allrar veraldar vegur víkur ad ſama púnkt, fetar þad fús ſem tregur, hvert fell-ur létt eda þúngt.

5. Hvørki fyrir hefd né valdi, hopar daud-inn eitt ſtrik, fæſt ſíſt med føgru gjaldi, freſtur um augna-blik, allt hann ad einu gyldir, þótt illa líki' eda vel, bón ei né brædi mildir, hans beiſka heiptar-þel.

6. Menn vada' í villu' og ſvíma, veit eng-inn neitt um þad, hvørninn, á hvørjum tíma, eda hvar hann kémur ad. Einn vegur øllum greid-ir, inngáng í heimſins rann, margbreyttar liggja leidir, liggi þó út þadan.

7. Abl daudans eins nam kreinkja alla í ver-øld hér; ſkal eg þá þurfa' ad þenkja, hann þyrmi einum mér? Adams er edli runnid, í mitt nátt-úrlegt hold, eg hef og þar til unnid, aptur ad verda' ad mold.

8. Hvørki med hefd né ráni, hér þetta líf eg fann; ſálin er, ſvo ſem ad láni, ſamtengd vid líkamann; í herrans høndum ſtendur, ad

heimta sitt af mér. Dauðinn má segjast send-ur, að sækja hvað Skaparans er.

9. Nú vel! í Herrans nafni, fyrst nauðsyn ber til slík; jeg er ei þeirra jafni, sem jörðin geym-ir nú lík; hvenær sem kallið kémur, kaupir sig enginn frí; þar læt eg nótt, sem nemur, neitt skal ei qvíða því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir, Lausnarinn himnum á, hann ræður öllu yfir, einn heitir Je-sús sá, sigrarinn dauðans sanni, sjálfur á krossi dó, og mér svo aumum manni eilíft líf vísi til-bjó.

11. Með sínum dauða' hann deyddi dauðann og sigur vann; makt hans og abli eyddi, ecként mig skaða kann, þó leggist lík í jörðu, lifir mín sála frí, hún mætir aldrei hörðu, himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni! mig á hans vald eg géf, hvört eg er úti' eða inni, eins þá eg vaki' og séf, hann er mín hjálp og hreysti, hann er mitt rétta líf, honum af hjarta' eg treysti, hann mýkir dauðans kíf.

13. Jeg lifi' í Jesú nafni, í Jesú nafni' eg dey, þó heilsa' og líf mér hafni, hræðist eg dauð-ann ei, dauði! eg óttast eigi, abl þitt né valdið gyldt, í Kristi krapti' eg segi: kom þú sæll þeg-ar þú vilt!

## No. 226.

Lagið: Í Jesú nafni uppstá.

O minn Herra! hjálp mér þá, lífsins skamt-ur er á enda, ei vill hjólið lengur vendast, og

og eg spenniſt oki frá. Unn mér þá ad eyddum døgum, andlits þíns eg ſjái dýrd; eydiſt synd, ángiſt og klegun áſamt mínum hjúp í jørd.

## No. 227.

Lagid: Oldúngar Júda annars dags.

Gef eg mig allann á Guds míns náð, geymi hann allt mitt efni' og ráð; hvad hellſt mér kémur høndum ad, í hvørjum ſtad, hans miſkun gjørvallt fel eg þad.

2. Minna lífdaga ſtærd og ſtund, ſtendur í Guds míns fedurs hønd; nær, sem hann vill, þá vil eg ſtrax, vera til taks, gladur bída þeſs góda dags.

3. Af því eg veit og eflauſt finn, Endurlauſnarinn lifir minn, þad er mín trú hans qvøl á kroſs, keypti lauſn oſs, ávann farſældar ædſta hnoſs.

4. En, þó ad lágt mitt lidna hold liggi, fúni og verdi' ad mold, ſamt finnur ecki ſálin deyd, né ſorgar leid, því hún er frí frá allri neyd.

5. Hvad er lík manna? mold og jørd, máttar-laus, doſin, køld og hørd. Hvørr madur fædiſt híngad ber, hvørr hellſt sem er, hefur eckert í burt med ſér.

6. Hann kann ad vera hrauſtur í dag, heill og vel-fær í gledi hag, en á morgun ſjúkur og ſár, ſvo til þad gár, líka máſké framlidinn nár.

7. Allt eins og blómſtrid gult og grænt, med glans' er ſtendur fagurt og vænt, á auga-bragdi' er ordid burt, enga ber kurt, fellur, viſnar og fýkur á burt. M 2 8. Med

8. Með þeim skilmála maður hverr, af móður-lífi fæddur er, hann skal burt deyja héðan víst, þá varir síst, verður hann sæll er við því býst.

9. O maður kristinn! hygg að hér, hugsa þig um meðan tíminn er, nú er þér boðin náðin stærst, Guðs elskan æðst, í þessu lífi líkn sú næst.

10. Ef að þú yðrast efalaust, á Jesúm setur von og traust, þá er hans náð þín heill og hlíf, hjálp vernd og líf, svo aldrei kennir eymda kíf.

11. Af augum þínum öll þín tár, ástrík hans herrar höndin klár, yndælann fögnuð helgum hjá, á himnum þá, endalaust muntú finna og fá.

12. Gledjumst hér við, öll Guðs börn trú! góð og fullvíss er huggun sú, heim-von er kjær, því hér er allt, í heimi vallt, eilífann fögnuð erfa skalt.

13. Unn þú oss, Guð! að yðrast hér, á meðan náðar-tíminn er, Drottinn! gef hæga dauða tíð, frið fyrr og síð, eilíft líf með útvöldum lýð.

## No. 228.

Lagið: Um dauðann gjef, þú Drottinn! mjer.

Mín lífstíð er á fleygi ferð, eg flýti mér til grafar, innann naums tíma nár eg verð, nakinn lagður án tafar; dauðleg manneskja dvel ei þá, dauða þinn fljótt að minnast á, það ráð er þörf að hafa.

2. Eins og þú vildir óska þér, í dauðans síðstu mæði, að lifað hefðir, lifðu hér, í lukku' og þrautum bæði; hefð, völd og metorð held eg þá,

þá, heldur létt verdi metum á, vid himna vegin gjædi.

3. Þó ad oss sæki sótt og hel, samt megum vér því trúa, ad ef hér lifad höfum vel, heim ervíss gott ad snúa til Drottins, hvar í dýrdar vist, dýrdlegir munum fyrir Krist, vid sælu' og blessun búa.

## No. 229.

Lagid: Hverr sem ad reisir hæga bygd.

Líkt skugga burtu líf manns fer, leid þúng verkar mótlæti, æsku-blómid stutt einatt er, yfrid hvikul vor kjæti; menn fædast, vaxa og falla frá, fáir sjøtigi árum ná, ef fleirum, er fágjæti.

2. Grøfin vort hold til geymslu fær, en góds ad vænta megi, og dauda verdi' oss dúrinn vær, Drottins ord bregdast eigi, sem þad fyrst vektum setur í, sídan líf eilíft gefur því uppvektu' á efsta degi.

## No. 230.

Lagid: Herra Gud í himnariki.

Hendin þín, Drottinn! blífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig hyrtir hér, hönd þína' eg gladur kyssi.

2. Daudans-strid af þín heilög hönd, hjálpi mér vel ad þreyja, medtak þá, Fadir! mína önd, munn eg svo gladur deyja.

## No. 231.

Med sinu lagi.

Nú látum oss líkamann grafa, og engann efa á því hafa, á efsta degi ad upprís hann í dýrd, sem aldrei bregdast kann.

2. Holdid er jørd og af jørdu, ad jørdu einn-inn aptur verdur, af jørdu rís þad efalaust, alla þá vekur Drottins raust.

3. Í Guds ríki øndin lifir, eilíf miskun henni hlífir, Jesú fyrir sáru krossins qvøl, qvitt vid syndir og daudans bøl.

4. Hans (hennar) mótlæti, hrygd og mæda, hefir nú øll endíng góda, ok Krists um sína æfi dró, er nú framlidinn, lifir þó.

5. Eilífann frid øndin hefir, allt til dóms-dags holdid sefur, af jørd Gud þá uppreisir þad, ódaudlegt, heilt og forklárad.

6. Lúinn skildist hann (hún) vid heiminn, í himna sælu er nú kominn, á lifanda Gudi lifdi í trú, lifir því víst med honum nú.

7. Sofi hann (hún) nú hér í fridi, heim vér gaungum frá þessu leidi; sem best jafnan sig sidi hverr, svo daudinn oss velkominn er.

8. Þar til hjálpi oss herrann Kristi, hverr oss med pínu á krossi leysti, frá dauda, synd og hættum heim; heidur, lof, dýrd sé Kóngi þeim!

## No. 232.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hér á jørdu ei hefir tef, hugur minn þegar sje eg grøf; sjón þeirri glædist ávallt af, upp-

risu von sem Jesús gaf; sofnar líkhami' og lifid manns, lifnar sídar med dýrdar glans.

2. Mikill dagur oss mæta á, munu grafirnar opnast þá. Lifandi' og daudir, Lausnari minn! leidast skulu fyrir dómstól þinn; þeir einir standast þá fyrir þér, sem þér í trúnni lifdu hér.

## No. 233.

Med' sinn lagi.

Um daudann gef þú, Drottinn! mér, eg daglega hugsa megi, og ad mín æfi' á enda fer, eg víst því gleymi eigi. Upplýs mitt hjarta, Herra minn! ad hrædast kynni' eg dóminn þinn, er uppqvedst á efsta degi.

2. Eins og þverhönd er æfin breid, allfátt mig kann ad hugga; lítils er verdt mitt lífsins skeid, launsvik óvinir brugga, fánýtt er þad og fallvallt mjøg, eg fæ því ei á nockurn veg, vid líkara líkt enn skugga.

3. Vort lífsins blóm er sorg og sút, og svo sem grasid vallar, líka sem ræda lídur út, eda lesnar søgur snjallar. Sem fuglar á burt fljúgum vér, fljótt eins og þá straumur fer, Gud menn úr kífi kallar.

4. Þótt margir menn í heimi hér, hégómlega sig mædi, til einkis gjøra þeir allt þad sér, fyrir aud og ríkdóms gædi, og vita' ei hvørr þad hljóta skal; Herra! kenn mér mitt daga tal, hjá þér svo huggun nædi.

5. O Gud! þú ert min adstod best, á þig minn andi treystir; min er sú bón og þørfin mest, mig frá óførum leysir; hjálp mér í daudans dapri pín, Drottinn! vardveit þú sálu mín, og til lífs mig uppreisir!

## No. 234.

Lagid: Jesú þínar opnu undir. (sjá No. 40 bls. 40.)

Monin kjæra, eilífd eina, arfleifd mín þá vard eg til; glæpa næra glód óhreina, en gjæta þín er dára spil! hvørr vill þar um hugsa þjód, og helgunar ei velja slód, sem til vista gledi greidist, gjørvøll lyst þá jardar eydist?

2. A Gud þig! minn andi kallar, áheyrn ljá nú bænum mín, aldrei mig lát aumann falla, ordi frá og bodum þín! fallinn reis mig fætur á, fljótt afleys og miskun tjá! fyrir hinna seku sauda syndir, minn leid Jesús dauda.

3. Veit mér brúka vel í haginn, vænstu nádar gefnu tíd, svo vid-ljúka sérhvørn daginn, sjáist dáda verkun fríd; ad gudrækinn aldrei eg, útaf kræki dygda veg, inn í blída eilífd lánga, uggalaus sídan vil eg gánga!

4. Fær þá stríd í fridi enda, forn ánaudin kyrrd í ró; enginn qvídi og kløgun henda kann, hvar daudinn aldrei bjó, ummindadur, alheill þá, eg hug-gladur loksins má, Frelsarann í fegurd lita, fundinn þann ei tímar slita.

## No. 235.

Lagið: Far heimur, far sæll.

Mér heimur far frá! því nú þreytist sál mín að sveyma þér hjá, og glaumur þinn metandi ecki neitt er, mót unaðsemd himins, sem lofuð er mér, mig heim þángað lángar, því hér leiðast fer, :||: hégóminn einber :||:

2. Seig mér satt, hvað er, sem heimurinn sláráði heilla nafn tjer? reykandi skuggi og skýjaflug hraðt, skjótt uppþotin bóla sem hjaðnaði og datt; í sút vafin misskyning, sannkölluð hér, :||: hégóminn einber :||:

3. Hvað auðurinn er? sá afguð, sem dárunum dýrmæti tjer, og tældi svo marga mjög frómleika frá, en féck þó ei mettað þann fýsti því ná; þú ríkdómur! ert eins og reynist þú mér :||: hégóminn einber :||:

4. Hvað gyldir heims makt, hans ósk[a]pa veldi, hans ofsæti stakt? hvað opt er það øfundað, ofsókt og hrjáð, hvað opt glatað, umbilt og hatað og smáð? þinn skérfur, þú dárlega drambsemi! er :||: hégóminn einber :||:

5. Abl, aldur, hvað er? hvað snylli? hvað heilbrygði og heppileg kjør? hvað unnusta manna, aðstoð og ráð? hvað erfiðis ákafi, mæða, manndáð? hvað er það nær dauðinn oss útkalla fer? :||: hégóminn einber :||:

6. Því far þinn veg nú, þú heimur fallvalti, og hjálp þín ótrú! eg sný hug til himins og hann stunda á, til herra míns Jesú, minn Frelsara að

ad sjá; þar hjá þeim útvøldu' hann hét og bjó mér :||: víst sjálfum med sér :||:

7. Þar mun eg þad fá, sem hér á jørdunni' ei heyrdi né sá, þann ríkdóm, þá vyrdíng, sem varanleg er, þá vegsemd og gledi, sem aldreji þver, þá einkis eg sakna, því ávinn gjørvallt, þar Gud er er mér allt, minn Gud er mér allt.

8. Sæl verdur sú stund, eg sídasta burtfarar sætann fæ blund, nær sála mín duptinu sig skilur frá, til síns Guds og skapara upplída má; sú komi sæl stundin! mér komi' á hans fund! kom dauda kjær stund! kom mér á Guds fund!

## 9. Fyrirbænir.

### a.) Fyrir øllum yfir høfud.

### No. 236.

Med sínu lagi.

Géf þinni kristni gódann frid, ó Gud! um allar tídir, því eckért høfum vér annad lid, einn þú fyrir oss strídir, sjálfur Gud vor sannur fadir!

2. Þú einn heilagann hug og rád og hreint framferdi veitir; géf oss þad hjarta af þinni nád, þíns ords alleina leiti, eptir því í øllu breyti.

3. Þó vor misgjørd sé mørg og stór, med nád vyrdstú þad bæta, í líkn og miskun lít til vor, lát oss ei hegníng sæta, en fyri Jesúm mildi mæta.

4. Um

4. Um það biðjum vèr, öll þín börn, að friðviljir oss gèfa, með þinni hönd og mildri vörn, móti óvinum oss hlífa, þèr til lofs svo mættum lifa.

## No. 237.

Lagið; Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Guð! þú kannt og vilt oss veita, vora það sem bætir þörf, um aðstoð þína ecki neita, allra blessa kall og störf! auki krapta oss þín náð, að efla bræðra heill með dáð, að vèr gögnumst æ sem flestum, unn oss, Guð! vèr hug áfestum.

2. Kórónu þeim þú bauðst að bera, byrði lètta gjörðu hans, þèr til heiðurs hánn lát vera, heill ríkjanna og Íslands! fús sèrhvörjum gèfi gaum, er gjörir rètt og sannleiks taum dregur, ebli lán svo lýða, laungun hans sè þèr að hlýða!

3. Valdstjórn bjóða vyrðstu á landi, vitsku þræða rètt á mið, að vernda fróma, en varna grandi, veit hjálpræði þitt og lið; þeim oss dygða lýsa á leið, léna trygð, en forða neyð; sín embætti veit þeim vanda, vel af mætti og náð þíns anda.

4. Blessa þá, sem bygdir yrkja, blessa þeirra sveita í frið, með vellíðun vyrðst þá styrkja, við forsjálni, heiður, grið, hvörn ærlegann yðjumann, í stètt sinni blessa hann! lát það vera sèrhvörs sóma, sæmd vors ebla lands og blóma.

5. Guð þitt orð og andi leiði, oss á dygða vegi hèr, aðstoð nema oss þú greiðir, eckert megnað fáum vèr; þèr að þóknast unn þú oss, svo

vèr=

ędlast mættum dýrdar hnoss, þad trúlyndum þínum géfa, þjónum sídar munt án efa!

## No. 238.

Lagid: Jesú þínar opnu undir. (sjá No. 40 bls. 40.)

Fadir! þenk til þeirra', er gráta, þúnga mótgángs undir hér; ýyrdstú krapt þinn vera láta, vægd og styrk þeim naudir ber! allra kjør um lá og lønd, leika, Gud! í þinni hønd, þú kannt græda, þú kannt særa, þú kannt hriggja' og endurnæra.

2. J verndar þinnar skjóli' og skugga, skulum vér lifa sorga frí, fyrir ótta, fyrir ugga, fridi gódum jafnan í. Gud! þín miskun eilíf er; eins framvegis géf oss hér, allt hvad þurfum og til þinnar, ávallt þénar dýrdarinnar!

## No. 239.

Lagid: Heidrum vier Gud af hug' og sál.

Vors herra Jesú verndin blíd, veri med oss á hvørri tíd; Gud hyggi þá, sem hrigdin slær, hvørt þeir eru fjær eda nær; kristnina eblí' og auki vid, yfirvøldunum sendi lid, hann géfi' oss øllum himna frid!

## No. 240.

Lagid: Gjørvøll kristnin skal gledjast nú.

Þín hátign, Gud! um eilífd er; af dýrdarstól himnanna, í nád til jardar samt þú sjer, send-

sendir heill bygdum manna; æ! vér þig bidjum allir nú, ad vort fødurland blessir þú, veitir frid, velferd sanna.

2. Géf vorum Kóngi gjæfu' og ráð, gagn stunda ríkja finna, ad elska frid en efla dád, og þegnum heill ávinna, kall sitt ad rækja kénn svo hér, kórónu' ad lífs í dýrd med þér veitist og vegsemd finna.

3. Vors Kóngs Rádgjøfum veittú nád, vísdóm og adstod sanna, og stjórna þeirra ydn og dád, øllum til gagnsemdanna, svo allir gódir eiguist frid, og med réttvísi geymist vid, árásum íllra manna.

4. Fadir! lát rigna foldu á, frjófgunarkrapt af hædum, umgird vort land og geym þad frá, grimmum hernadi' og skjædum; Gud! þú med speki gjörir ødlt, géf oss ad treysta þér ávallt, bædi' í medlæti' og mædum.

5. Géf þegni hvørjum gédjist hér, gaum skyldu sinni' ad veita, á sjó og landi brauds sem ber, og blessunar þinnar leita; ástundi svo med ást og dád, adstod, huggun og þarfleg rád, voludum jafnan veita.

6. Láttú oss, Drottinn! líkjast þér og líf vort dygdum prýda, géf øllu því sem gjøra ber, góda framgvæmd, heill blída, fødurland rétt uns finnum vér, hvar fáum betri styrk enn hér, þér, Fadir! þjóna' og hlýda.

## No. 241.

Lagid: Gudi løf skal ønd mín inna.

Frid veittú voru landi, voldugi Fadir! fyrr og síd; yfirmennum øllu grandi og undirgéfnum

um forda lýd. Þá lídur ad lífsins enda, og linnir heimsins stund, gèf oss þinn guddóms anda, ad gledji vora lund! vort athvarf allt í heimi, og adstod Drottinn er, hans hønd oss hlífi' og geymi, vid háska' og naudum hèr.

## No. 242.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Lát landid frjófgun fá, fulla og sæta; rèttinn sinn framgáng sjá, og sannleiks gjæta. Gud gèfi mèr, minn deildann verd á medan, og til þess eg vid grøf, aflegg minn ferda-staf, og held burt hèdan.

## No. 243.

Lagid: Hverr sem ljúfann Gud lætur ráda. (sjá No. 64 bls. 57.)

Kóngsins lífdagar fjølgun fái, fyrri og síd í blessun hèr; hans stjórn lucku og heillum nái, hans kyn blómgist uns tíd øll þver! ó Gud vor Fadir! oss heyr nú, vèr æskjum þess hann blessir þú!

2. Um kríng hans sæti sífeldt skíni, sannleiki' og nád rèttlæti med, þín adstod hann med heidri krýni, heill og fridur hans lífgi gèd, ó Gud vor Fadir! oss heyr nú, vèr æskjum þess, hann blessir þú!

## No. 244.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Heidur, frid, lucku, lán og gjædi, legg yfir þann, sem Kóngur er, landa-stjórn hans og hjarta

bœdi, himneſki Kóngur! líki þér; landa-búum hans legg þau ráð, að luckn fái og gæfu náð.

b.) Á Strids-timum.

No. 245.

Lagið: Væri nú Guð oſs ecki hjá.

Sé Guð með oſs, vér engri þá, ólucku þurfum qvíða, hann má trauſt ſetja hvørr einn á, í hrigdum mœdu tída, hann ſá gódi Guð, hjá oſs er, hann frelſar oſs, því ſkulum vér, hans gladir hjálpar bída.

2. O Guð! þú hefir opt það gjört, er menn ſíſt vænta kunnu; já, opt þá ſkŷ umkríngdu ſvørt, yndæluſt ljós upprunnu; von þegar komin var í þrot, vér þinnar hjálpar fengum not, mein farga oſs ei unnu.

3. Vér bidjum þig, vor blídi Guð! bæn vora heyr, ſem fadir! ſet takmark ſtrídi, ſorg og nauð, ſend oſs frid ſvo að gladir, þitt frelſi ſjáum, þitt í hús, þacklátur gángi hvørr og fús, þér prís að hefja hradir.

Géf þinni kriſtni gódann frið. (Sjá No. 236.)

c.) Í ſkjædum Stór-ſóttum.

No. 246.

Lagið: Væri nú Guð oſs ecki hjá.

O Guð! hvørs náð og aðſtoð blíð, er þeim vís, ſem þig bidur, þú ſendir oſs nú ſorg-

ar tíd, svo burt vor hverfur fridur; ángistin gyrdir um oss því, allmørgum daudinn kastar í grafar nid-myrkur nidur.

2. Oss nidur-lúta' í naudum því, nýjar hørmúngar græta, daudanum hljótum hardt nær í hvørju fótspori mæta, einn vinur síhja annann má, og bródir fordast bródur sjá, síns lífs sjálfsur ad gjæta.

3. En verdi, ó Gud! vilji þinn, var hann og er þad besta; vægdar þig bidjum vér hvørt sinn, von hofum á þér festa, þó ædi daudinn enn á ný, ollu til góda stýrir því, þín fodur-mildin mesta.

4. Þeirra styrki þinn andi ond, er hédan sviptast ega, rétt þeim í dauda hjálpar-hond, ad hafi trú ódeiga, von um fullsælu vek þeim hjá, værd andar lát þeim géfast þá í fridi fara mega.

5. O Drottinn! minnstú mæddra vel, mildi gled alla þinni, veit oss hreintrúad hjarta-þel, hrind frá oss efa-sinni; géf ad í qvøl og kjæti vér, kappkostum ad oss daudinn hér, vidbúna vel æ finni.

---

## d.) J Lands-plágum.

### No. 247.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

Réttláti Gud! hvørs hegníng strída, hrædilegt er ad sjá og lída, í þinni hendi' er himin stór, hafid, jørd, eldíng, vindar, snjór.

2. Hvad

2. Hvad sem þú býdur, blýdir, kémur, hvad þú vilt afmá sjest ei fremur, árfæld, hallæri, audnu, pín, almáttug stýrir forsjón þín.

3. Æ, Gud! sjá nú hvad yfirdynur, undir hörmúngum land vort stynur, þín börnin qveina og barma sér, bodi daudans því geist um fer.

4. Mönnum og sképnum missist fridur, menn og sképnur því stynja vidur, hvorttveggja þetta, Herra! þó, hendin almáttug þín tilbjó.

5. Lifandi Gud! sem lífid ljenar, og lífs heill vorri sjer hvad þjenar, minnst vor í nád og vægd oss sýn, vér treystum uppá gjædsku þín.

6. Bjód þú land-plágum, hættu, hrigdum ad hverfa burt frá vorum bygdum, födurland vort og fólk allt hér, Fadir! í miskun tak ad þér.

7. Bjód himni, jörd og hafi líka, Herra! oss færa blessun ríka, forþjentu straffi væg oss vid, vort land umgyrdtú þínum frid!

8. Géf oss framför í gódum dygdum, gjæt vor vid syndum, qvöl og hrigdum, vernd þín oss geymi um vötn og lönd, vér felum oss í þína hönd!

---

## e.) Fyrir Deyjandi.

### No. 248.

Lagid: Öldúngar Júda annars bags.

Heim, sem daudinn nálægist nú, nádugi Drottinn! hjálpa þú, ó hvad hörmúngin hardt þá skér, hvad jardneskt er, eckert þá framar huggar hér.

2. Þinn kraptur styrki þeirra lund, sem þúngann báru dags um stund, nú er lífs-dagur enda á, æ! láttú þá, qvøld-værdir gódar, Fadir! fá.

3. Enginn svo hladist eymdum hér, ad vonar sjónir missi' á þér; send veikum hægd og leggdu lid, lát sálar frid, lina ofraun og gëfa grid.

4. Æ! lát þá minnast á þad vel, ad nú sídasta' er rauna jel, og hvørn einn líka hyggja' ad því, ad heimi í andstreymi vid er enginn frí.

5. Þitt ord þeim sýni sannleik þann, sigur á deyd ad Jesús vann, og ad oss tilbjó samvist sá, þér sjálfum hjá; gëf þeim traust setja allt þar á!

6. Veit þeim øblugа von og traust, um vegsemd med þér endalaust, og þá farsæld, sem er þér hjá, þitt auglit sjá, og meiri æ fullkomnun fá.

7. Vert þeirra Gud og gëf þeim nád, gjæd þá vid andlát styrk og dád; líkamans þegar bresta bønd, í blída hønd þína, Gud! medtak þeirra ønd.



III. Sálm-

# III. Sálmar til vissra Tima.

## 1. Ara-skipti.

Einn Gud þér allir prísid. (sjá No. 31.)

No. 249.

Med sinu lagi.

Guds vors nú gjædsku prísum, gódir rétt-kristnir menn! med saungum likn hans lýsum, lof segjum honum enn, fúlltingi fyrir sitt, sem hefir af gjædsku sinni, hvørt einn trúi'eg þad finni, á þessu ári' oss veitt.

2, Miskunsemd hans og mildi, vér minnumst gladir á, og vyrdum víst sem skyldi, hans velgjørninga þá, er hann nú þetta ár, oss gefid hefir øllum, konum bædi og køllum, og kunnugt fyrir oss stár.

3. Voldugur Drottinn veitti, vors' á landi frid, allt fólkid einninn fæddi, og gaf hvad þurfti vid, af hans miskunar hønd, því bygd og bæumr vildi, blessun fødirinn mildi, gefa um gjørvallt land.

4. Oss hefir vardveitt alla, af fødurlegri náð, ef vildi hann yfir oss falla, sem vor er mørg ódád, med jafnri mædu' og pín, fyrir laungu vær-

um vér deyddir, af sorg og eymdum eyddir, hvørt fyrir synvir sín.

5. Sí-ljúfur svo sem fadir, svo er hann mildur víst, vér fáum frelsi gladir, fyrir vorn Drottinn Krist, med réttu traústi og trú; hann af oss sviptir syndum, setur skamt hrigdar-stundum, vesl-um hjálp viss er sú.

6. Allt gott þú einn oss gefur, ó Gud vor himnum á! allt hvad gndgrdrátt hefur, allt skal þér lofgjörd tjá! í Jesú nafni nú, þín bidja börn enn fremur: blessa árid sem kemur, allra þörf uppfylltú; :||: í Jesú nafni nú, þín bidja börn enn fremur: blessa árid sem kemur, allra þörf uppfylltú. :||:

## No. 250.

Lagid: Herra! Þier skal heidur og lotning greida.

Sitt á enda ár vors lífs er runnid, enn oss sendast Guds af nádar-brunni, líkn, hjálp-rædi, lífsins gjædi, lán og nædi, hvörf þad hræda kunni.

2. Hjartad dansi, honum lofgjörd inni, hátt til aust túnga, mánnvit, sinni, hvørt med gátt gesgi kátur, Guds nád játi, lída ei láti úr minni.

3. Honum sálin blýdni sverji vísa, hans vort málid æ skal gædskn prísa; vort þacklæti veri hans mæta vilja ad gjæta, ást svo ætíd lýsa.

4. Honum felum hagsæld árs komanda! hann sier vel um oss, hvad mun þá granda? oss hann seka ei útrekur, allann speki hans burthrekur vanda,

5. Al-

5. Alvøld mildin øllu þú sem rædur! enn góđvildar ſeđ oſs þinnar gæđum; auđga dygđum, hamla hrigđum, hrind burt ſtygđum, bú oſs bygđ í hæđum!

## No. 251.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvørr ſem kann.

Sitt nú er útrunnid lífſins ár; lof ſé þér, lífs Herra' og fadir klár! allt þig lofar endalauſt, anda ſem hrærir, vetur, ſumar, vor og hauſt, vegſemd þér færir; hvør dags ſól, heill veita' og gledi, heims um ból hvervetna rédi, líkn og ſkjól hlífur oſs tjedi Gud, hvørs mildi gøfgum vér. :||: Tid og eilífd heidri hann, hans kjærleik príſi :||:

2. Greida ber, Gud! fyrir lidna tíd, þackir þér, þín geymdi' oſs nádin blíd. Gud og fadir vor þú varſt, varnadir grandi, umſjón fyrir øllu barſt, í voru landi; frjóſſemd af fylltir og gróda, enn létſt haf, andlegd frambjóda, fridur gaf, oſs farſæld góda, allt í ſettri ordn ſtód; :||: allt forſjónar auga þitt áleit í mildi :||:

3. Allir nú, enn ſelum, Drottinn! þér! allt hvad þú, oſs hefir géfid hér, ønd, líkama, audnu, líf, øll vor heimkynni, Gud, vort athvarf, hjálp og hlíf! hønd geym oſs þinni. Vel munt því, vor Gud! oſs leida, bjørg á ný bygdum tilreida, landi í, líkn, heill útbreida, þér fulltreyſtum allir enn :||: ad þú bleſſir árid nýtt, oſs ſem nú géfur :||:

4. Útbreid þú, ó Drottinn! krapti med, traust og trú til þín, ad fáum sied, orda þinna ljóma ljós, leid villtum beina; dygd og vitska vort sé hrós, vegsemdin eina! géf oss frid gódum ad halda! send oss lid, sitt hverjum gjalda; alla vid ást, nád margfalda; af jørd og hafi braudi' útbýt, :||: hvern med trú sin stunda stœrf styrk, Gud! og blessa :||:

5. Kóngs vors lønd, krýn farsæld, Drottinn kjær! þín sé hønd, þeim æ til verndar nær; Valdsmenn þeirra vitsku prýd, veit styrk af hædum, ad farsæla landa lýd, létta burt mædum! géf þeim fá, gledi þá kanna, ávœxt sjá embættis anna, blessun sjá um bygdir manna; hvørs eins blessa stétt og stand, :||: einn hvad bera' ei orka má, adstodi fleiri :||:

6. Géf oss nád, Gud! medan lifum hér, vort allt rád vanda til dýrdar þér; oss í dygdum ebli sú, afstýri føllum, í Jesú bidjum nafni nú, neyd hrind af øllum. Íslands lýd, almáttug leidi forsjón blíd; farsæld útbreidi árs hver tíd, óhepp hjá-sneydi. Gud! þig heidri gjørvøll lønd! :||: þig vegsami ár og øld, allur lífs Skarinn! :||:

## No. 252.

Lagid: Gjædsku Guds vjer prísum.

Þeck, gódi Gud! vér færum, med gledi-saungum þér, hátídar hljómi skjærum, hugkátir tjáumst vér; heyr med velþócknun þú, Fadir! þad lof, er ljódum, lypt munns og sálar hljódum, á nýju ári nú.

2. Þú

2. Þú gafst oss lands og lýða ljúfann, ó Herra! frið, og lagðir blessun blíða, bjargræði sérhvört við; þitt væga vísdóms ráð, oss hefir ætíð leidda, og alla stigu greidda, með föður mjúkri náð.

3. Þegar til þín oss snèrum, þín miskun tók oss við; af himni hrestir erum, huggun þú gafst og frið. Hug-kjæti helgri með, þèr þjúgir þakk-ir ýdjum, þig Drottinn! enn tilbiðjum, þitt prís-um gjæðsku geð.

4. Gjør nú, ó Gud! það biðjum, gèf oss blessun í ár, með oss í øllum ýdjum, æ sé þín gjæðska klár, hvørn blessa, hvörs eins stand! lát vísdóm varsa' og dygðir, vel-líðan kéfji hrigðir, blessa Kóng, lýð og land!

## No. 253.

Lagið: A. þier, Herra! hef eg nú von.

Rís upp, mín sál! að nýju nú! nýja lofgjörð uppbyrja þú, því nú er nýtt ár komið, nýr skeinkur þèr, ný-gèfinn er, ný-runnið himna-blómið!

2. Lof sé þèr, Gud! fyrir liðið ár, lífs heill-in mín-øll í þèr stár, ó þú minn andar-kraptur! sem vægdir mèr, svo enn eg er, á nýtt ár kom-inn aptur.

3. Þú hefir verndað veðhlaup mitt vel, svo eg gjæti hnossið hitt, á nú umliðnu ári, líkam' og ønd, þín líknar-hønd, leiddi úr hættu' og fári.

4. Einn varstú traust og unun mín, ein mig verndaði gjæðskan þín, eg gèck í geymslu þinni,

hagsæld og ró, þín hend mér bjó, og huggun sálu minni.

5. O! mín sálar heill hjartanlig, haldtú því sama fram vid mig, á ári inngángandi, handleidslan þín, sé hlífdin mín, vid háska og öllu grandi!

6. Ný miskun ári nýju á, nýja mér qveiki laungun hjá, þér einum þjóna, hlýda; mitt kall og stétt, trúr rækja rétt, rór þyggja ef vilt hid strída.

7. Þá æfi-árum hallar hér, hjástod best, Fadir! vertú mér, gef endíng glada nauda; atþvarfid mitt, skal ordid þitt, eins í lífi sem dauda.

8. Allt þad gott, sem mér unntir þú, almáttug hönd þín geymi nú, og blessi mig og mína, þitt andlit blídt, um árid nýtt, yfir mér láttú skína.

## No. 254.

Lagid: O Drottinn! allsvaldandi.

Þockum vér Gudi gladir, af gódu hjarta, hug og trú, allir sem innsafnadir, erum í Drottins húsi nú; hann oss gaf líf, og lénti, líkusemd af, hvad sem þjenti, ei hann svaf, allt sá best, er henti.

2. Vor Gud! þér vegsemd tjáum, varhveitslu þína fyrir og nád, framar enn skynjad fáum, forsjón þín hefir ad oss gád; fyrir hlíf, heilsu, gródur, hjálp vid kíf, næring, fódur, þér eilíf þöck sé, Fadir gódur!

3. Æ! fremur enn þig bidjum, oss réttú þína fodur-hend, ad allt til lofs þér ydjum, andi þinn

þinn styrki vora önd; auk oss dád, audgaft dygdum, um vort lád, varna styggdum, í sorg oss nád, send frá efri byggdum.

4. Lát hvørn árs-daginn eina, æ kénna jafnan sért oss med, og meinn í øllu reyna, ad stjórn þín mild þá fær ásjed; Fadir! vér, forsjá þinni, selum hér líf, heimkynni, allt hjá þér, adstod, blessun finni!

---

## 2. Missira-skipti.

### a.) Vor-Sálmar.

### No. 255.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn!

Ó Herra Gud! eg þacka þér, þú hefir hlíft og stjórnad mér, á nú umlidnum vetri, háska og slisum varnad vid, veitt blessun, næga hlífd og lid, mér og mínu adsetri. Drottinn! Drottinn! eg kaun eigi, út ad seigja ástar-anda, miskunnar þinnar mér til handa.

2. Samt hef eg syndgad mikid og mjøg, móti þér, Hátign guddómleg! minn Gud! minnstú þess eigi, lát yfir-gnæfa gjædsku þín, gjørdú enn framar vel til mín, hvad eg efa aldreji. Drottinn! Drottinn! mín hefir gjætt og meinin bætt þín miskun ríka, unn mér hún fylgi' á eptir líka.

3. Missirid er nú umlidid, en hid nálæga tekur vid, því bid eg, Herra hýri! ad mig leidi þín

 hjálp-

hjálpar-hønd, hættulaust yfir mein og grønd, og athæfn allri styri; Drottinn! Drottinn! ad øndu minni máttur þinn og mildi gjæti, líkaminn sømu lidsemd mæti.

4. Inngáng bædi og útgáng minn, áform og hegdun sérhvert sinn, farsæl þú Gud minn gódi! mér og minni svo stjórna stétt, ad stundi'eg hana vel og rétt, í þinnar forsjár flódi. Drottinn! Drottinn! leid þú mig um lucku stig frá lasta-voda, vyrdstú mig ætid í øllu stoda!

5. Allt hvad eg gjøri' og gjøra læt, Gud minn blessadur! ad því gæt, svo farnist farsællega; reisur mínar og ráda-hag, rædu og tilstand nótt og dag, annastú alla vega. Drottinn! Drottinn! leyf þú ei eg lifs á vegi løstum sinni, mig fel eg þér og mitt heimkynni.

6. Leid þú mig, Gud! þann vissa veg, sem vísa ord þín guddómleg, um alla æfi mína, geymi mun í sannri gudrækne, gef þú ad eg innlæstur sé, í vernd og vøktun þína. Drottinn! Drottinn! leyfdú mér ad lifa hjá þér og lausnar-degi fagna, nád þína svo mikla megi.

## No. 256.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Vetur er enn á enda, eilift lof sé þér, Fadir kjær! þú léist oss lucku henda, og lagdir þad til, sem þurftum vær; þú hefir øll vor efni annast vid fári' og naud, verndad í vøku' og svefni, og veitt oss daglegt braud; varnad voda og føll-
um,

um, vedrum og húngurs pín, afstýrt stór-slisum ellum, og stodad vel bernin þín.

2. Enginn kann yfirvega, alla blessun, sem veittir þú, andlega og stundlega, á þessum lidna vetri nú; heilsu, lán, heill, bjargrædi, hesum enn þegid vér, margsháttar gagn og gædi, gafst þú oss Drottinn! hér; þú hlífdir háska' og grandi, heldst bygd og sképnum vid; þú veittir voru landi, verndun á alla hlid.

3. Þacklætis-offrid þýda, þyggdu nú af oss aptur á mót, fyrir ást og ásjá blída, ell velferli og nádar-bót; svo fyrir son þinn mæta, sendann til lausnar oss, þú létst hann borga' og bæta, brotin vor ell á kross; í honum allt hid góda oss veitt-ir, Drottinn! þú, þér gjørum þackir bjóda, þad er vort offur nú.

4. Hverr kann ad tjá og tína, trúfesti þinn-ar sérhverri vott? eda med ordum sýna allt, sem lands-búum veittir gott? auga þitt ad oss gádi, eyra þitt heyrdi' oss vel, hendin þín hjálpa nádi, hýrt var þitt ástar-þel; ó þú, Drottinn alvaldi! allt gott er létst í tje, hér og um allar aldir, æf-inlegt lof þér sé!

## No. 257.

(Eptir gódann Vetur.)

Lagid: Kjær Jesú Kristi!

Guds gjædsku prísa, geymar, hef og stord, lof hans auglýsa, lifandi manna ord; himn-anna hersveitir, Herrans votta dád, allt gott enn oss veitir, ástin hans og nád; merkin tída heut-

hentug hann, hægum lýda setja vann; vorum hlýda kjørum kann, kjæla' og sólar bráð.

2. Oss enn framleiddi, eitt um vetrar-skeid, Gud og lífs greiddi gánginn heim í leid; vodanum afvendi, vedrin gjørdi hæg; leika lét í hendi lífsins medøl þæg; gaf fárádum huggun hann, hressíng þjádur jafnan fann, oss í nádum veitast vann, vegnun gégn og næg.

3. Med hvørju má eg, minn Gud! heidra þig, ekkért til á eg, áttú sjálfur mig; þitt eg þér skal bjóda, þad er mín ønd og líf, prís þinn lystugt ljóda, lán hvørt reyni'eda kíf. Offur greidi'eg þackar þér, þig tilbeidi, vertú mér, lífs um skeid, sem eptir er, unan, von og hlíf.

4. Ný nádar gjædi, nýju sumri á, líf, føt og fædi, Fadir! vyrdstú ljá; gagn, sem gengid stydur, gési oss himininn, frami, heilsa, fridur, fylgi' oss út og inn; fénadar hjørd ei finni naud, færi jørdin øllu braud, lands umgjørdin láti aud, ladast ad oss sinn.

5. O Jesú! á þér, øll mín grundast von, haf bústad hjá mér, heilagi Guds Son! einkum lífs vid lotin, láttú anda þinn, þegar eg máttar þrotinn, þenki' á dauda minn, huggun sedja hjartans þel, hugann gledja deyds vid el, heim þá qvedja kann eg vel, og koma í himininn.

6. Þar sífeld sæla, sem ei bregdast kann, og líf yndæla, æ vid leikur mann; alla'án enda gledur, ástin Drottins heit, unun ædstri medur, í þeim dýrdar reit, eymda róli frelsud frá, fyrir stóli lambsins þá, høfud-bóli himins á, heiløg dvelur sveit.

## No. 258.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Lof syngid, gefgid gladir, Gud vorn skapara prísa ber, sem med oss fer sem fadir, framleiddi jørd og himna hér, gefgid þann Gud, hvørs haldist, grunnlausa hefir náð, frá eilífð og um aldir, allir hans miklum ráð, vor-føgnud blidt útbreidir, bod þitt, ó Gud, vor Gud! þér lofgjørd, þøck og heidur, því syngur ønd vor glød.

2. Voldugur, vís og gódur, veturinn, Fadir! létst framgá, her náttúrunnar hljódur, hvilld tók og sem í dvala lá, med vor-blóma blidum vakti, bending þín hann til lífs, hýrt brosti og burthrakti, blíd sól þraut vetrar kífs, yl-gjøfum enn útsleytir, øllum því gledi ljær, fjør hressing, frjóssemd veitir, farsæld um bygdir grær.

3. Gud! allrar gjædsku lindin, gledst enn náttúran øll vid þad, í daggar-dropum sendir, dýra frjóssemd hér ofanad; strax blómi skógur skrýdist, skaut jardar ný-skéd læst, yndælum úrtum prýdist, engid er blómstrum glæst, lopt hlýtt, ylmur ágætur, øll lada til vor hnoss vor-gjæda er, Gud! þín lætur, gjædska útbýtast oss.

4. Um vøllu og grænar grundir, gjædsku þinnar berg-mála róm, ótal þúsund þúsundir, med þrá-samstilltum gledi hljóm! lof þitt um loptid dunar, lofa þig blómstur strád, fjall, laut og lækja buna, lof róma þinni náð, hvørt hljód fegnudi fyllt er, fagrann æ syngur pris, óss því ad þacka skyldt er, þína trygd, Gud alvís!

5. Ei

5. Ei skal þó túngan eina, algódi Fadir! prísa þig; hjartad í ástum hreina, hefji med glad-værd til þín sig! sífeldt skal vor. ósk vera, med verkandi ást og dygd, þér vora þeck ad færa, þjóna gladir med trygd, vér lífs tóm vort þér helgum, vor skal ástundan sú, ad lærum, fúsir fylgjum, Fadir! því skipar þú.

## No. 259.

Lagid: Í Jesú nafni uppstá.

Nú upprann þín sumar-sól, vottur til um ei-lífd eigi, ad í minni grøf eg þreyi, vor Gud, athvarf vort og skjól! úr ham vetrar følum fær-ir fold, þín alvøld máttar-hønd, upphýngd sképn-an hýr sig hrærir, um háfid, lopt og ylnud lønd.

2. Gud! þín lindin gód og ný, med ár-døgg foldu fredna kjætir, frjófum med qvøld-skúrum vætir, sólar vermda hollum hlý; tímar árs í ordu', er settir, enn nú skiptast, lof sé þér! þraut skammdægra ljós þitt léttir, líka af nordur-bú-um hér.

3. Þú upplýkur þinni hønd, gledur, blessar, gnægtum fyllir, gjæda þinna en harma stillir, þeirra sképna', er þágu ønd; þín af feiti og frjóf-samd drjúpa, fótspor þá í skýjum gár, ástar undra afgrunn djúpa, opid hvørri sképnu stár.

4. Lautin, breckan brosir hver, sád, grøs, ó-tal urtir gróa, oss ad sedja' og gledja þróast, skógur bjørg og skjólid ljer; í ótal lækjum ad oss streymir, unadsemdum náttúran, af þér fyllt, þá gledi geymir gnótt, er tæmast aldrei kann.

5. Hvørr finnst gódur, Gud! sem þú? trú-fast, vrlátt hvar er hjarta, á hvørju fødur-nafn eins skartar? vér undrumst þína ást og trú; án þin, Gud! vér glatast þjótum, glæpugt líf vort til þess vann, vér þó lífs og nádar njótum nægta', er mildi þín oss ann.

6. Øllum lýsir ljósid þitt, engann vantar ást-ar gjædi, ó! þin nád er vort lofqvædi, og þin vægd, sem oss lét fridt! Gud tilbidjid, gøfgid, qvedid, Guds nád prísid; vyrdid, menn! hvad margt gott vor Gud oss tjedi, gott hvad margt vill tjá oss enn.

## No. 260.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Nú skal enn í Guds trausti, uppbyrja nýjann missira hring, lífsins Hertoginn hrausti! hafdú gát á oss allt um kring. Nýja blessun, nýtt sumar, nú lát oss færa hér, hvad um lopt, haf, jørd sveymar, hlýda má Drottinn! þér; lát nýja nádar-strauma, nýkomna frjófga tíd; vyrdstú vernda og geyma, veikstaddann Islands lýd.

2. Gef þú oss farsæld góda, géfdú oss enn í landi hér, af jørdu gras og gróda, gagn sjáfar-ins og heilsu-kjør, blessun um bygdir allar, bjód andar, líkamans, enn heillum oss tilfalla, ábúum þessa lands; svo gladir náum njóta, næringar, lífs og auds, þá skal ei þeckin þrjóta, þágu vors daglegs brauds.

3. Kóngsins tign stødug standi, stýd þú, Drottinn! hans Rikis-rád, fridurinn fordi grandi,

forsjón

forsjón þín blessi Ísa-láð, Vøld kirkju, kristinn-dóminn, kénning, trú, líf vort hér, eilísi lífsins ljóminn! leid allt til dýrdar þér; vorn inn- og út-gáng bædi, øll verk og ferdalag, býgdir og øll bjargrædi, blessa þú nótt og dag.

4. Alla lands Yfir-herra, í þína sjelum verndar-hønd, eign og embætti þeirra, og alla menn um þessi lønd. Íslands vorn einn veri, þín vøldug hjálpin sterk, oss svo hér enginn gjøri, áhlaup né skémdar-verk; þig ef ad vitum vera, vorn skjøld á alla hlid, þá mun alls enginn þora, oss spretta fíngri vid.

5. Í stjórn og umsjá vorri, ytri og innri fridur sé, ytri í høndlun hvorri, hinn gód samvitska láti' í tje; en sá eilísi fridur, oss gésist himnum á; þín hjørd, ó Herra! bidur, hana í nád lít á; vor heill, athvarf og verja, vertú í landi hér; svo skal sumarid byrja, med sønnu trausti' á þér.

---

## b) Haust-Sálmar.

### No. 261.

Lagid: Gjædstu rikasti grædari minn!

O Gud heilagur, heilagur, heilagur Gud og Drottinn vor, blessadur um aldir alda; þér offra eg þakklæti nú, þig ákalla med bæn og trú, þér vil eg gott lof gjalda, Gud minn! Gud minn! skyldt er mér ad þakka þér og þig ad prísa, upp upp minn saungur Guds ást ad lýsa!

2. Lof sé þér heill og hjástod mín, himneski Gud! fyrir miskun þín, og veitta velgjørd alla; sem nú umlidna sumar tíd, sýnt hefir mér þín gjædskan blíd, og lét mér allt vel falla. Gud minn! Gud minn! mig hefir leidt og meinum eydt þín mildin ríka, bygd mína vardveitt og blessad líka.

3. Upplokinn fann þinn ástar-brunn, eg og þitt nádar djúpt afgrunn, minn Drottinn! mér til handa, þadan kom mér øll þørfin mín, því prísa eg nú gjædsku þín, og vil þér vegsemd vanda. Gud minn! Gud minn! allt hvad er í aumum mér, þér einum unni; lof þitt sé jafnan í mínum munni!

4. Allann mig, Drottinn! offra' eg þér, á nú komanda vetri hér, og alla æfi mína, lát mig umflýja lasta verk, leidi mig jafnan hønd þín sterk, geym mín fyrir gjædsku þína. Gud minn! Gud minn! hvar eg er og hvørt eg fer og hvad eg gjøri; skil aldrei vid mig hirdir hýri!

5. Allt þad, sem ecki þócknast þér, þad vyrdstu taka' í burt frá mér, vel svo þínum vilja hlýdi; en þad sem þér er þægilegt og þjenar til þinnar dýrdar frekt, géf mér þad, Gud minn blídi! Gud minn! Gud minn! verk mín øll og vegnan høll, sem mál og minni, farsælist af þér úti' og inni.

6. O Herra! tak þad allt frá mér, er mér kann snúa burt frá þér, svo ockur enginn skilji, ó Drottinn! géf mér aptur þad, er mér kann þér ad snúa ad, er þad mín mín ósk og vilji. Gud minn! Gud minn! vyrdst æ hér, ad vera med

mér, minn Herra hýri! eilíft lof sé þér, Drottinn dýri!

## No. 262.

Lagid: Gudi lof skal önd, mín inna.

Lof sé þér, Drottinn dýri! dögum og öldum stjórnar þú, þá sumar tíminn hýri, hann er kljádur á enda nú; ó hvad ótal mörg gjædi, oss gaf þin nádin blíd, líf, heilsu, föt og fædi, farsæla sumar tíd, trú klára' í kyrrd og fridi, kristinndóms medøl öll, þín hjálp vard hverjum ad lidi, svo hreppkum ei slísa-fell.

2. Med mjög margføldum gjædum, miskun þín krýndi sumars tíd, frjóssemd af himna hædum, hefir á jördu audnast lýd, land og sjór gagn og gróda, gefid hefir oss nú, áhlaupi illra þjóda, oss hefir fordad þú, yfir- og undir-stjettir, ásá þin milda hönd, í þína umsjón settir, almennilegt tilstand.

3. Þér gjörum þackir færa, þýdi Fadir! af hug' og trú, lof þitt eblist og æra, vid allt það, sem oss veittir þú; en hvad á hverjum degi, hefsum stygt veldi þitt, minn Gud! minnstu þess eigi, mis-verkin öll gef qvitt, lát oss ei glæpa gjalda, gef heilög þeckjumst rád, Fadir! vid oss framhalda, fulltingi vyrdst' og nád.

4. Herra, lof þér sé þýdi! þinn fyrir son, er dó á kross; þú blessar lönd og lýdi, læsing atvinnu upplaukst oss; fyrir líf og luckn alla, lid, heilsu, vernd og fé, er þú létst oss tilfalla, æfinleg dýrd þér sé! svo skal sumarid enda, sýn oss

þíg

þig nádugann, og vyrdst oss veturinn senda, vægann og farsælann.

## No. 263.

Lagid: Ris upp, min sál! ad nýju nú.

Sjá! blóminn sumars á burt er, íklædast vetrar búning' fer náttúran, dymma dægra, og hretin hörd, lifs lada hjörd, leita ad skjóli þægra.

2. Sjá! vér medtókum sumri á, svo margfeld gædi' af landi' og, sjá, bjuggumst vid lopts oblidu, bjuggumst vid þörf, vor bæja-störf, budu ad verjast stridu.

3. Sjá! ad lifum og sérhvad gott, sem þegid höfum, gædsku vott þeckjum Drottins dásamann. Oss hættum af hreif, blessun gaf, hann leiddi' oss allasamann.

4. O Gud! þig prísar sinni' og sál, sérhvad, sem bærir raust og mál, og skepnu-skarar snjöllu; þér þackar allt, lán þúsundfaldt, þú sem vidheldur öllu.

5. Vertú vor hlíf, heill, utan öll, allt hvad lifir um dali' og fjöll; til þinnar mildi mænir; gef blessun, braud, burtvísa naud og böli, sem ró oss rænir.

6. Æ lifa svo ad líki þér, léna oss styrk, svo sáum vér, fölnadri foldu medur, ad hvílast vært, uns hróp þitt skjært, heiminn til lífs uppqvedur.

## No. 264.

Lagid: Syrgjum vier ei sáluga brædur.

Oll náttúran enn fer ad deyja, ylur horfinn, saungfuglar þegja, kulid skek-

ur qvistu ber-standa, qveina stráin felnud mót dauda.

2. Hingad sól dépru horn-auga vendir, hvört geislana bl:d fyrri sendi, foldin styrdnar, fyrr sem réd gróa, felur skugginn ljós, jørdu snjóar.

3. Enn lifir þó aldanna fadir óumbreyttur, forsjá hans gladir, felum vér oss, fulltraust þad gétur, fridad enn og geymt hér í vetur.

4. Nockrum yndis-nægtum þó svipti, nátt-úrunnar dauf hátta-skipti, alvold speki og elska nærgjætin, áqvardadi hvad sem oss mætir.

5. Veturinn er velgjørd frá Drottni, vakir hans forsjá, aldrei svo þrotni, þad hvorri til gagns er og góda, hans gjædska mun skepnunni bjóda.

6. Hann baud vetrar hridir oss færi, þær heillir sem gledji og næri; herrans nægtir hollar oss fæda, hann réd oss mót vetrinum klæda.

7. Foldar í skauti fræonu hann lætur, felast qvikar urtanna rætur, uppyngdar þá út vetri hallar, í æsku-blóm nýtt lifsins hann kallar.

8. Pínum enginn þeckir af gjørdum, þús-undasta partinn á jørdu, en af því stóra, sem vér þó sjáum, sanna hjartans ánægju fáum.

9. Fagnid! ord Guds sýsir ad geyma, fadir ormanna kann oss ei gleyma, stig hans boda gáng-id hug-gladir; Gud er sumar og vetur vor fadir.

## No. 265.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Kominn er kaldur vetur, kom þú til med oss, Drottinn minn! líf vort, eign og adsetur,

anniſt miſkun og kraptur þinn. Oferum, illum dauda, andſtreymi, ſorg og þrá, ſtyrjaldar ſtórum voda, ſturlun ſamvitſku frá, húngri, drepſótt, hallæri, hardindum, dýrri tíd, forda oſs, Fadir kjæri! fylgi oſs nád þín blíd.

2. Géfdú oſs gódann vetur, géfdú oſs hagſtæd vedra-föll, géfdú oſs gott adſetur, géfdú oſs þarfa medöl öll; annaſtú eckjur allar, og fødurlauſann hvørn, annaſt þá á þig kalla, aumſtaddra ſértú vørn; unn oſs þitt ord ad læra, og ſynda fordaſt vél, oſs hjá þér unn ad vera, unn oſs ad deyja vel.

3. Bleſſa þú bygdir manna, bleſſud velferli lát oſs ſá; bleſſudu braudi ſanna, bleſſun Guds orda unn oſs ná; bleſſa vor brjóſt og ſinni, bleſſa vor verk og mál, bleſſa vor bæja-kynni, bleſſa þú líf og ſál, bleſſa þinn barna ſkara, bleſſadú hús og menn, bleſſa oſs, vondu vara, veturinn bleſſadu enn.

4. Frá ædſtum tignar-tróni, þín trúfeſt nád enn gæti vor; þér hvørr einn hlýdinn þjóni, hønd þín oſs leidi ſérhvørt ſpor; innri og ytri fridur, eining í hvørri ſtétt, haldiſt oſs einninn vidur, og allskonar høndlan rétt; geym oſs vid glæpa-føllum, grandi, fári og neyd, ſídan úr eymdum øllum, í eilífa dýrd innleid.

---

## c.) Eptir gott og ardſamt Sumar.

## No. 266.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvørr ſem kann.

Hvor Gud! er nú jardyrkjan hér, útendud, allir því færum vér, þér, vor Fadir! þøck

og prís, þú oss blessadir; stjórnun þín er væg og vís, vér syngjum gladir: frjófgun lands, forsjón þín greiddi, gagnsemd manns, góda tilreiddi skepnum hans, skadsemd fráleiddi; lifs bjørg søfnud saman er. :||: Allt hvad hefir andar-drátt, einn Gud vegsami :||:

2. Sól þín skein, sannhly um hvolfid blátt, kulda-mein kreptug, í hvørri átt burt-tók hún, en himininn, hlýtt regn oss færdi, breiddi jørd út barminn sinn, blómleg grøs nærdi; yrktum vér ardsama reita, vonin hér, vorn gladdi sveita, Gudi ber, greida þeck veita, starfid borgad vort er vel. :||: Allt hvad hefir andar-drátt, einn Gud vegsami :||:

3. Lof sé þér, launadir, Drottinn! þú, allt vort hér erfidi og mædi nú, yndi hjá þér, ávallt fann, ást og nád kiæra, heill lètst þú í hvørn einn rann, himininn færa, víst ert sá, verndarinn þjóda, sem vilt oss ljá, vætu, þurk, gróda, er þér hjá upphaf alls góda; þér ber æra, þøck og prís. :||: Allt hvad hefir andar-drátt, einn þig vegsami :||:

## No. 267.

Lagid: J dag þá hátid høldum vjer.

Lof sé þér, hjartans hróp vort því, heyrdir þú, fadir þjóda! starf vort borgar nú blíd á ný, blessan af jardar gróda, hvørt stráid, lauf og blómstur ber, berlega vitni ad mikil er, Drottinn! þín gjæfskan góda. Vér þøckum þér, þig lofum vér.

2. Hey=

2. Heyskap vorn blessad hefir vel, hönd þín ad þessu sinni, því syngjum lof med þacklátt þel, þad medtak af nád þinni; gef oss forsjálni ad gjarnan hvörr, gáfur sem veitti nád þín vor, á bestann hátt brúka kynni, og þacka þér, þig prísa hér.

3. Lát vórar hendur bjóda braud, bjarg-þrota þurfa-mönnum, svo léttum undir ann'ra naud, med ást og kjærleik sönnum; þegar vér af-gángs höfum hér, hugsa lát oss ad skyldugt er, bágstöddum bjarga grönnum; svo þöckum þér, þig prísum hér.

4. Líf medan varir lát oss þér, líkjast í kjær-leik hreinum, í fögnud himna framar vér, full-komnun hans þá reynum, þó kunnum nú þinn kjærleik sjá, klárlegar skín hann himnum á; þér sé, Gud! æra einum; vér þöckum þér, þig lofum vér!

## No. 268.

Lagid: Gjæsku Guds vjer prísum.

Vér þöckum þér, hinn gódi! þig prísum vér, ó Gud! ad þú af þínum sjódi, þarflegt oss veitir braud, oss geymir æ og nú; allt þad sem fram þú færdir, forsjón þín ávallt nærdi; gódur, vor Gud! ertú.

2. Land vort blessa, lífs Herra! legg fædu' á sérhvört bord! lát blessun þeim ei þverra, sem þitt vardveita ord! örbyrgum adstod tjá; gef audgum gjafmildt sinni; gef eining, svo menn kynni, síns njóta' í fridi fá!

## d.) Eptir bágt Sumar og í hardæri.

### No. 269.

Lagid: Jesús Kristur er vor frelsari.

Gud! sem rædur øllum gædum, af jørdu, vetrúmi, sjó og hædum, þín hønd útbýtir, Her a kær! hverskyns gáfum, sem þyggjum vær.

2. Allt vald þú, Drottinn! ætíd hefir, øllu, sem lifir, næring géfur, þegar upplýkur þinni hønd, þá mettast allt hvad dregur ønd.

3. Þegar útsendir þú þinn anda, þá nýjast ásýnd jardar landa; en ef krapt dregur undan þinn, oss sparar jørdin gróda sinn.

4. J sumar margur sá og reyndi, sinn ersfidi nú ad leyndi náttúran, annars nógu rík, neyd er verdskuldud af oss slík.

5. Vér kjósum gjøra kjør, en sýnum kaldsinni mikid gáfum þínum, ó Gud! ressa því ei, sem ber, enginn fyrir þér saklaus er.

6. Géf oss ánægdu enn med sinni, úthlutun móti taka þinni, og óski svo vort andvarp stillt: æ verdi, Drottinn! hvad þú vilt!

7. J hug til þinnar hjálpar stefnum, hagtær þú vorum litlu efnum; bjørg lífsins drýgi blessan þín, bjód frá oss víki húngurs pín.

8. Blessa vort land og bæg frá mædum, bjód þú einninn ad rík af gædum, opni náttúran oss sitt skaut, og vid hallæris fordi þraut.

9. Til þinnar, Drottinn! mildi mænum, miskun þín hyggi ad vorum bænum, veit þú oss hjálp mót vodaʼ og neyd, vertú vor Gud í lífiʼ og deyd!

No.

## No. 270.

Lagid: Kom hjer, mín sál! og kynntú þier.

O Drottinn kjær! hvad veitstú vel, vanqvædi gjørvøll mín! mér hjálpar æ hvar hellst eg dvel, hjástöd og gjædskan þín, haldt mér stødugum vid þinn veg, víst, þín af hjarta' ef leita eg, ró gêfst en raunin dvín.

2. Mig þó heimsæki margføld naud, mædan ef ángra fer, þó daglegt hljóti' ad bresta bráud, svo banninst naudþurft mér, rafkast þó ei mín hugar-hægd, hef' eg allskonar gjæda-nægd, því Drottinn líkn mér ljer.

3. Haf því í skorti gladvært gêd, grátin og hugsjúk ønd! fimm þúsund litlum mat því med, mettadi Jesú hønd; Herrann sferf þínum høfir ei gleymt, heldur þér nóg til vista geymt, þó úrrædi virdist vønd.

4. Hvad hann þér gagna sjálfur sjer, sannlega muntú fá, heims nægta þó ei heppnist þér, herra-bord vid ad stá, lát þér nægjast í lægri sess, lífs uppheldis ad neyta þess, sem skamtar hønd hans há.

## No. 271.

Lagid: Gædskuríkasti grædari minn!

Had er svo margt og mikilsverdt, minn Drottinn! sem þú hefir gjørt, mig vid um mína daga; allt var þad gott, eg þacka þér, þín forsjón mild útbýtti mér, því sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veiti lid mér þad eptir er og øllum líka, guddómur þinn og gjædskan ríka.

## e.) Eptir allgódar og ardsamar Vertídir.

### No. 272.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Frá þér, ljósanna Fadir! flýtur øll gjøf sem nefnist góð, vér fjáum vonar gladir, þú veittir allt, sem hentar þjód, á þitt orlœti mœnir allt hvad lífs hrœring ber, hœd, vøtn, lant, hálsar grœnir, herma oss: stórt þad er, hafid baudst heita skyldi, hirdsla audœfa þín, þadan þín midlar mildi mørg gjœdi skepnum sín.

2. Þínu lífs eptir ordi, ad þeirri hirdslu sofnumst vér, sem børn ad fødur-bordi, blessunar þinnar leitum hér; enn gaf þín orlát mildi, oss þadan gódann plóg; hvørr er, sem ecki skyldi upphrópa: þú gafst nóg! dýrd sé þér, Gud! sem gésur, gott allt til sjós og lands, allt hvad andar-drátt hefir, ebli prís Skaparans!

3. Hvørr kann þér, Herra! nœga herma vegsemd og þackargjørd? þín safnar forsjón frœga, fiskum hafs, sem menn sauda-hjørd, midt í sjós ólgu øldum, opnar sig hønd þín góð, med gjœdum svo margføldum, mettir þú landsins þjód; því hœttulegri heita, hér vor erfidis kjør, þess betur þrátt vorn sveita, þín borgar mildin ør.

4. Lof þér, Gud! allir inni, allt má nefna þíns kjærleiks vott; lát oss nú líkjast þinni líknsemd, í því ad gjøra gott; géf oss med gáfum þínum góda ánœgd og frid; hallæri, háska, pínum, Herra! oss forda vid, géf ad vér lifum gladir,

greid

greid þú oss allt í hag, vér þinni forsjón, Fadir! felum oss nótt og dag.

## No. 273.

Lagid: Jesú Kristi! vjer þøckum þjer.

Prísi Drottinn allt hvad er, øllu sem næring gefur; af brunni hassins bjørg oss lier, blessad enn land vort hefir; ó Gud! hvad værum vèr án þín? vyrdst oss framvegis gledja, med þinni líkn; uns lif vort dvín, landsheillum gódum sedja. Lát oss muna'ad gjøra gott, gjøf þína svó rètt brúkum; þacklætis sýnum þarmed vott, ad þurfa-manns tár afstrjúkum. Drottinn! þér einum dýrdin ber, vér þøckum þér, þig lofum vér!

## f.) Eptir bágar Vertídir og í Fiskileysi.

## No. 274.

Lagid: Hvørr sem ad reisir hæga bygd.

Gud! þinni stjórnun hæfir hrós, í hrigdum, skorti, mædum, þín hefir høndin líknar ljós, lykil ad øllum gjædum; nær þeim upplykur lætur lyd, luckusæld hreppa'á hverri tíd, af hafi, jørd og hædum.

2. En ef þú lykur aptur, þá ørbyrgdin víst er líka, lífs næring hverfur landi frá, læsist hafs-skautid ríka; nálgast þá húngurs neydin sár, nú hefir margur þetta ár, mátt reyna mædu slíka.

3. Fèsjóð sinn hafið furðu-tregt, fèck oss, vèr megum klaga: líkhams að lúð er fjørið frekt, forgèfins marga daga; en verði, Drottinn! vilji þinn! veistú hvað þínum hvert eitt sinn, børnunum hellst kann haga.

4. Vèr meglum ecki móti þèr, miklu heldur oss fleigjum, í þinn forsjónar faðminn hèr, felum oss þèr og segjum: æ Faðir! mikla mildin þín, miskunn oss og forði pín, vongóðir vèr svo þreyjum.

5. Það oss ei líði þánka úr, ef þykir atvinnu bresta, að skinið fylgir eptir skúr, og skort opt nægtin mesta; þú hefir allt í þinni hend, þèr felum bæði líf og ønd, neyð bæti náð þín besta!

## 3. Morgun-Sálmar.

### No. 275.

Lagið: Þjer þackir gjørum.

Ljómar ljós dagur, lífs kjætist hagur; sjá! ljós sveit vekur, sól nótt burthrekur; enn feður alda, eilífum gjalda, þøck skal þrefalda.

2. Lof hátt skal hljóma, hjálp og náð róma Guðs geymslu bestu, gjæðsku nægð mestu; þacklátir þreyjum, þar til burt-deyjum, synd hatur segjum.

3. Vort kall vel rækjum, vort gagn rètt sækjum, óttumst Guð eina, elskum dygð hreina, sátt og samlyndi, sem er lífs yndi, bæn og blíðlyndi.

4. Verum von-gódir, vel þolinmódir þrautir af þreyjum, þó hér stríd heyjum, síst Drottinn seg- ur, sinni líkn hefir heitid, hjálp gefur.

5. Mitt líf, minn andi, mín raust syngjandi, ó Gud uppbœda! um þinn prís rœda, vel sé vid- tamin; vegsemd skal samin, þér og þock, Amen!

## No. 276.

Lagid: Gjædskurlkasti grædari minn!

Med fridi-uóttin fráleid svert, fyrir mér apt- ur sólin bjørt, lýsir og gladt mig gétur, í mætti og gjædsku mikill þú, med krapti þínum, Gud! enn nú, oss tíd og takmørk setur; dýrd ber, þvi þér, vernd og nád og vitsku dád mér vyrdstur senda, hvern dag í blessun hér byrja' og enda.

2. Í svefni Gud min vørnin var, eg vissi'ei af mér sjálfum par, og háskann ei adgjætti; en móti hvørskyns hættu' og pín, Herrann var sjálf- ur verndin mín, hans forsjón fár upprætti, krapt med gladt géd, nýjann gefid hann nú hefir heilsu minni; ó Gud! eg treysti umsjón þinni.

3. Í nafni Jesú ángurs frí, eg byrja þenna daginn, þvi hann verdur mér hagstædur; Guds vilja ef ad eins eg ann, allt mér til góda leidir hann, lífi og lucku rædur, hann mér, hjálp tér, Herrann rádi, Herrans nádin hjá oss veri, hans allt, sem lifir, lof frameri!

## No. 277.

Lagid: Hvørr sér fast heldur.

Hátt upp í hædir, mitt hjarta lypti sér; Gud sem nú gjædir mig gledi, lofa ber; nýjann

dag: vott um nýja' eg sje náð nú sem lætur :||: náðugur Guð í tje :||:

2. Hans náði heyra, þá hóf eg andvarp klökt, fúst fedur=eyra, fann mína nauðsyn gløggt, þá fyrsta byrjast þørfin vann, um ásjá bað eg, :||: og Amen sagði hann :||:

3. Guð! hvørju gjalda, gjøf þína má eg nú! þøck þúsundfalda, þér ber eg fram, í trú að um mig hugað enn sé þér, gef gáfur þínar :||: að góðu verði mér :||:

4. Enn framar feti, færist eg lífs á skeið, gef æ eg géti, gengið fram dygða leið! takmark míns lífs sé takmark það, oss fýsi' að finna :||: nær=slyt=jumst eilífð að :||:

## No. 278.

Lagið: Himna rós, leið og ljós.

Dágur er! dýrka ber Dróttinn Guð minn; nótt er liðin, lof sé Guði! ljós skín; gleð=ur enn marga menn myrkra=flóttinn, líf og sál, líka mál, lofi Dróttinn!

2. Fyri þinn són og sælu=von, sé þér hæst lof! mig þú spardir, meinum vardir, minn Guð! mér gafst frið, líkn og lið, leið svo nóttin; líf og sál, líka mál, lofi Dróttinn!

3. Mig hefir leidt og meinum eydt, miskun=n þín hvørja stundu' á heimsins grundu hér til, ... ert hja mildur, þá eg missi' þróttinn; líf og ...l, líka mál, lofi Dróttinn!

4. Eg bið þig, annast mig enn í dag nú; ... þann sanna sál=vin manna, son þinn, veit mér

mér náð, vernd og ráð, vægð og líðsinn'; líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

5. Helgann dug, hreinann hug hjá mér uppqveik, þér að hlýða, líka líða lán dags, og þúngann með þolugt geð, þreyja hlýðinn; góðann dag, glaðann hag gef' oss, Drottinn!

6. Hvað eg hér forma fer, farsælist vel, útgáng, framgáng, inngáng blessa æ minn, og í náð allt mitt ráð, annast hvert sinn; góðann dag, glaðann hag gef' oss, Drottinn!

7. Eg fel þér allt hvað mér áður gafstu; sé þinn dugur mér máttugur, minn Guð! bæti sá, best sem má, breiskann þróttinn; góðann dag, glaðann hag gef' oss, Drottinn!

8. Líf og önd, efnin vönd eg nú þér fel, eyðu illu, voða' og villu ver mig, sómi' og dýrð sé þér skírð síseldt, Guð minn! líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

## No. 279.

Lagið: Fadir vor, sem á himnum ert.

Ljósið dags fagurt ljómar enn, líf breiðir út og gleði's senn, minn fyrsti þánki því nú sé, þakklæti Guði láta' í tje; að eg upprisinn, frór og frí, farið get til míns verks á ný.

2. Í værðar skauti sætt eg svaf, svefninn mér nýja krapta gaf, minn líkam, sál og hús mitt hér í hendi geymdir, Drottinn! þér, sú föðurlega forsjón þín, fordað hefir oss neyð og pín.

3. Hér fyrir sál og málið mitt, minn Guð! vegsamar nafnið þitt; míns hjarta tráust og at-

hvarf allt, á medan lifi eg, vera skalt, því hvørn sem á þér hefir trú, Herra! ei yfirgefur þú.

4. Hjálp! eg uppfylli hér í dag, hvad þú baudst og minn styrkir hag, ætíd stunda med allri gát, ann'ra og mína velferd lát; fótsporum Jesú fylgja hér, svo fái'eg himna dýrd hjá þér.

## No. 280.

Lagid: Hvørr sem ljúfann Gud lætur ráda.
(sjá No. 64 bls. 57.)

Lít eg enn daginn létta húmi, loptid purpura-fegurd stráð; sem lík eg ádan lá í rúmi, lif nýtt þygg af míns fødurs náð; fje, tilbid, undrast yfir því, ad hlotid hefi fjør á ný.

2. Þessi reynsla, þó þeigi annad, þar um ó-ræk mér gefur skil, medur undrun svo má eg sanna, mikill og vís ad Gud er til, alvaldur, gódur, øll-um nær, umsjá holla, sem skepnum ljær.

3. Hann lætur skepnur lúnar deyja, líf nýtt uppyngdum gefur þeim; um augna-blik ad eins hér þreyja, um eilífd fagna' í betra heim; deyja hlýt eg, svo himna-víst, hold mitt upprísid fái gist.

4. Vid von þá styrkur vil eg bída, og vernd míns Drottins treysti hér, mót heimsins løstum herkinn strída, hins leita, sem þar uppi er; hold-id temja, sem himnum á, helgadri sálu fylgja má.

5. Æ! styrk mig, Fadir! upp svo rísi og lifi þér, sem skepna ný; þíns ords og dæmis ljós mér lýsi, lastvar svo gángi fram í því; upprisu-num, lífs nær útlegd þver, er mér þá sæla vís hjá þér.

No.

## No. 281.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Af þína, Gud! enn mér bodar, upprennandi morgun sól; þig ad prísa, er vardir voda, væra sjedir hvíld og skjól, fyrst skal ydja og munnsins mál, mín af blundi hressta sál, lyptir sér í himna hædir, um hátign þína og miskun rædir.

2. Blunds í fadmi eg lá, sem lidinn, likn þín vakti og til mín sá; endurnæring, nædi og fridinn, nádug veitti þín forsjá; enn mér nýtt gafst aptur fjør, ótal bjóst mér heilla kjør, er þú vildir ad eg hlyti uppvaknadur og þeirra nyti.

3. Lífs þess krapta áttu alla, er mér gafstu nýtt í dag; til þín þenkja og þig ákalla, í þrautum skal og gledi-hag, lífs míns Fadir! løgin þín, lífs-regla sé jafnan mín! yfirvegan ástar þinnar, unadsemdin sálar minnar.

4. Eg vil þín med lotníng leita og lífs vid sporid finna hvert; í elsku og dygd þér eptirbreyta, eins hreinskilinn leynt, sem bert; þú, minn vilja og veikleik sjer; vertú aldrei fjærri mér; leid mig svo fram lífs hvern daginn, loks ad dýrdar erfi eg haginn.

## No. 282.

Lagid: O! Fadir himneski og eilífi Gud.

Upprís mitt hjarta og í mér hvad býr, upprís mín túnga og máli rétt stýr, upprísi lofsaungur andheitur, nýr, uppirísinn dags-roda nótt flýr.

2. Eins og lík andvana eg lá í nótt, ecki neinn finna réd líkama þrótt, dauda og lífs er æ milli-bil mjótt, mér lèt þó Guds verda nád rótt.

3. Hans rèttri leidi mig höndin í stètt, hún í dag greidi minn fóta stig rètt; hún öllum sneydi mig hamíngju prett, hvergi svo veidi mig tál sett.

4. Lát oss, Gud! nema ad lifa svo hèr, liss-ins svo dagana telja ad vèr, allir þá deyjum, ó Drottinn! hjá þèr, dýrdina erfum med lífs ber.

5. Fús skal eg, Drottinn! þó bída, sem ber, bera dags þúngann, en líd veittú mèr; eilífur sóminn og þockin sè þèr, þig lofi hvad sem ad lifs er!

## No. 283.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Enn til ljóss alvald þitt, á ný mig færdi, af dúrsins dái og mitt, dug hressum nærdi líf, sem ad lá, lúid á fótskör þinni; verndn þín, sem vidhèldt mèr, vottar eg enn sè þèr, minn Gud! í minni.

2. Því skal mín þacklát sál, þèr aldrei gleyma; hegdan, hjarta og mál, holl bod þín geyma; med nýjum dug, í dag hún fast ásetur, ad stunda dygd og dád, Drottinn! gef veikum nád, ad breyta æ betur.

3. Eg er í hættum heim; hans glis mig letur; en móti ódvin þeim, adstod þín hvetur; eg megna allt, ef þinn kraptur mig stydur, súrt ef mèr sendast vann, sykra þad aptur kann, þitt fylgi' og fridur.

4. Aldr=

4. Aldrei yfirgáfst þú, þann á þig treysti; vera skal vissa sú, von mín og hreysti; í qvöld eg mun, ást og náð lýsa þinni, að héldst mér á þeim stig, að óttast, Fadir! þig, svo frid eg finni.

## No. 284.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Hyr aptur morgun blída brosir, breidir út heill og fegnud sinn; vid annir heims sig önd mín losi, og til þín skundi, Drottinn minn! fyrst allra þöck svo færi þér, fodurlega sem vidhéldst mér.

2. Hollt í svefn-værdum hlaut eg nædi, hreppti nýtt líf og krapta þar; hús mitt, líf, velferd, lánid, gjædi, læst í míns födurs höndum var; mín gjætti forsjá fodurlig, fékk ei skadrædi nálgast mig.

3. Byggi í náð, Fadir! þá sem flýtur, þöck af viknudu brjósti nú; heppinn er sá, sem hælis nýtur hjá þér, og setur á þig trú; æ skaltú vera athvarf mitt, aldrei brást mér fulltingi þitt.

4. Æ! hjálp mér, svo med alúd vandi, allt mitt framferdi vel í dag; ad trúr í minni stétt eg standi, stundi heill mína og brædra hag; leid mig á fótspor Lausnarans, sem leidi mig til himnaranns!

5. Med hugfró eg þá hlaup mitt þreyti, Herra! þín forsjá leidir mig; eg veit þitt heit-ord aldrei breytist: elskar þú þá, sem stunda þig; þú ert minn fadir ástargjarn, eg fyrir náð þitt kjörid barn.

## No. 285.

Lagid: Sæll dagur sá.

Sá kémur stund, kreptug fram þegar alla, af grafar-blund, Guds sonar raust mun kalla, og eilífs lífs eda dóms vekja til. Eg verd, mín sál! einn med í þeirra skara; lífs leid er hál, líkn Drottins enn þó sparar þig, þess ei dyl.

2. Enn vard þér vært, vægd Drottins enn þitt hefir, fjær endurnært, og fødur-trygdar gèfur, þér merki ný, manstú til hvørs þad skér? Guds ástar géd, gjeri þér til hans snúa, ad fáir sjed, undir eilífd sig búa, hvørr skuli hér.

3. Þér vaki sá þánki jafnan í brjósti, synd fæli frá, fýsi dygd ad kappkostir: eilífd eg flýtst, vid andartak hvørt nær. Hann greidi þér, gjørdir allar svo starfa, ad stundir hér, ødrum og þér til þarfa, vel vinnist þær.

4. Nótfest hjá mér, minn Fadir! áform þetta; kénn mér, ad hér, hef eg ei bústad réttann; mitt fødurland er mínum Gudi hjá. Þángad svo eg, þaunkunum hvørn dag snúi, þann þrædi veg, þar til mig jafnan búi, lid þitt mér hjá.

## No. 286.

Lagid: Jesú þínar opnu undir. (sjá No. 40 bls. 49.)

Dagur austur-lopt uppljómar, ljóssins Herra! dýrd sé þér, mikla verkd og milda dóma, miskun þín oss jafnan tjer; morgún-rodans blídri brún, blessud enn nú gledur hún, Af sæng upp-rís

ríſum ſælir og gladir, ad ſÿngja lof þitt, hjartans Fadir!

2. Skapari þared lÿds og landa, lífs og heilſu veitir hüoſs, láti' hann ſannleik, ljós og anda, leida, ſkína og ſtyrkja oſs, ad þjóna ſér í þeirri ſtétt, þar hann hefir oſs í ſett; ſérhvert bøl, ſem mér kann mæta, miſkun vyrdiſt hans ad bæta!

3. Gud! hvad ſem í øllum áttum, oſs til heilla ſkápadir þú, eptir ſínum edlis-háttum, ebli vora farſæld nú; géf oſs þenna gódann dag, gódi Fadir! ſjá vorn hag, oſs þín bleſſud gjædſka geymi, gjædin full í betra heimi!

## No. 287.

Lagid: Endurlauſnarinn vor Jeſú Kriſt.

Gudi ſé lof fyrir ljóſid gladt, lidin med værd er þeſſi nótt, eg vil uppríſa og minn Gud príſa. Gjæti vor Gud!

2. Hans verk því eru himin og jørd, hér med er ljós og dymman gjørd, mót morgum voda, mønnum til góda. Gjæti vor Gud!

3. Svo marga lofgjørd ſegi'eg þér, ſem þú gáfſt andar-takid mér, um æfi mína, fyrir alla bleſſun þína. Gjæti vor Gud!

4. Mínum misgjørdum, Gud minn! gleym, Gud minn! lát mig ei deyja í þeim! mín verk ad ſtunda, veit mér án ſynda! Gjæti vor Gud!

5. Svo lát mig vera ſem þú vilt, ſé æ þitt nádar-heit uppfyllt, á mér og mínum, med krapti þínum. Gjæti vor Gud!

6. Gef mér ad skynja'ad endast á, æfinnar skeid og lifsins þrá; minn Drottinn gódi, mér øllum rádi! Gjæti vor Gud!

7. Eg fel mig nú og øll Guds børn, almáttugs Guds í skjól og vørn, í himnaríki, hann oss iuntaki. Gjæti vor Gud!

## No. 288.

Lagid: Sá vitnisburdurinn valdi.

Hvørn skyldi líf mitt lofa, ef lífs ei høfund þann, er lèt mig lifa' og sofa, og lífga þar med vann; skyldt er og ljúft mér líka, ad lofa hinn gjædskuríka, því verdur þess er hann.

2. O ad mitt áform vekti, ó Gud! ad lofa þig; ó ad eg ætíd þeckti, hvad annt þér sè um mig! hjálp, Gud! á hvørjum degi, hvør ein mín athøfn ségi: ljóst ad eg losi þig.

3. Mun þá einn morgun fagur, mig vekja af þøgum blund, hinn mikli dómsins dagur, þá Drottins fedur-lund, lof-sæld mig lætur gledja, lífs gledi' og heillum sedja, um eilífdar alla stund.

---

# 4. Qvøld-Sálmar.

---

## No. 289.

Lagid: Þøck se þier gód giørd.

Sólin rann, ljós leid, ljúfur Gud mig styðja, í dag vánn og neyd allri burt ad rydja, af

því hans er greid øllum líkn, ad bidja, enn skal mín ydja.

2. Veit mér þrótt veg þinn vel, ó Gud! á-stunda, og ad skjótt eg finn enda lífs ígrunda, svo þessi rótt hug minn, hédan burt þá skunda, til fegins funda.

3. Veik mín dád æ er, abl og mentir dvína, gjørvallt rád, Gud! þér géf eg mitt, audsýna, vyrdstú nád í nótt mér, nú eg fel í þína umsjón ønd mína.

4. Mér ei neyd mun þá, mædu' og qvída valda, ef lífs-skeid og þrá, endar helid kalda, géfst mér þreyd, Gud sjá, gledi' og dýrd marg-falda, um aldir alda.

## No. 290.

Lagid: Kristur reis upp frá daudum.

Dags vöku' er enn nú endi, og nætur svefn fyrir hendi; svo breytist allt í heimi hér, en himnesk gledi stadføst er. Gæti vor Gud!

2. Eilífi einvalds Herra! eg vil þér þackir gjøra, ad sendir Jesúm soninn þinn sálu-hjálpara' og hirdir minn. Gjæti vor Gud!

3. Þú hefir á þessum degi, þyrmt mér en glatad eigi, annast svo sem þitt einka barn, ó Gud! hvad þú ert nádar-gjarn! Gjæti vor Gud!

4. Eg vil þó aumur játa: eg má ei barn þitt heita; hróp synda minna' í himininn, hefir opt stigid, Fadir minn! Gjæti vor Gud!

5. Þú gafst mér blessun þína; þá náð hef eg syndum launað, í dag sem öll mín æfi-qvöld; æ! mína þúsund punda skuld! Gjæti vor Gud!

6. Fadir! ó fadir nádar, fadir sannleiks og dáda! fyrirgéf öll mín afbrot leid, fyrir árnan Jesú pínu og deyd; Gjæti vor Gud!

7. Annars eg ei má sofa, ellegar nádir hafa; hvørr vill vænta sér værd og frid, vera ósáttur þó vid Gud? Gjæti vor Gud!

8. Gleym þú því glæpum mínum, Gud minn! en krapti þínum, vernda þú mig svo vil eg traust, vel sofa' og hvílast háska-laust. Gjæti vor Gud!

9. Sál, æru, audnu, lífid og allt þad þú hefir mér géfid, géf eg í þína gjædsku vern, Gud minn! vardveit þú öll þin börn! Gjæti vor Gud!

10. Jesú, meistarinn mildi! mín óskar sál og vildi, himneska ró og hvíldir fá, heilagra þinna lyndi á. Gjæti vor Gud!

11. Gud géfi oss gódar nætur, Gud hjálpi oss vel á fætur! á hann vér setjum traust og trú, tryggd hans felum oss allir nú. Gjæti vor Gud!

## No. 291.

Lagid: Lángar mig í lífs heg.

Hvíld er þæguſt þjádum, því hún hressing til-byr, Guds ad gjædsku rádum, gjördist nótt-in mörg hyr, skjær frá lydi' og ládum, laung-um þegar sól flýr, aptur værd adsnýr.

2. Lof þeim Lífs-foríngja, líf sem geymir vort þrátt, sætlega skal sýngja, sál og túnga mín hátt, nýrri náð umkríngja, nú mig lætur sinn mátt, og hlynnir að dátt.

3. Nú áfalla nótt vann, nádir lúdir fá menn, allann hennar óttann, yfirgnæfir værd enn, lífs um ferdar flóttann farsæl endar hvíld senn, laun fáum þá þrenn.

4. Mína daga mig lær, minn Gud! telja svo hér, ad eg skynji allnær, er sídasta qvøld mér, endíng þegar øll fær æfi-stundin hjá þér, þú betra líf ljer.

5. Mér hlíf minn Gud vel eg, mínum lífs á vegi, aldur hvar sem el eg, eins á nótt og degi, forsjón hans mig fel eg, fyrir tign hans hnegi, og ædsti lof segi.

## No. 292.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Upp dregst ad auga-brá, enn daudans bródir; mig gleymin minnir á og mælir hljódur: minníng daudans, dag hvørn ný hjá þér vaki! hef'eg þad hug' inrætt haft, og í dag þess gjætt, ad enda' eg taki.

2. O sál' ódaudleg mín! ebld'eg heill þína? hugsan sú: hverful dvín, hérvistar lína; jók hún mér megn, mót girndum heimsins blindum og hvatti' ad ydka 'dád, adhyllast Guds míns ráð, en sjá vid syndum?

3. Væg, Fadir! væg, af náð! væg þú mér sekum! lát brot mín ljót afmád, lett sektum frekum; sjá! hjarta sært, synd hatar til þín leitar, sem einka athvarfs sins, í nafni sonar þíns; um náð ei neita.

4. Mig fødur forsjón vann, fram í dag leida í nótt því annast kann, og meinum eyda; helsdúr mig frá, heimi þá svæfir kaldur, ond dýrdleg, frelsud, frí, fullsælu lifi í, eilífda um aldur!

## No. 293.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ljós á vængjum leid einn dagur, lengst í vestrid frá oss inn; einn þú veitst, hvert annar fagur, í austri rennur nockurt sinn. Herra Gud! sem hefir rétt, himin-ljósum midin sétt; ótal vitsku verkin ljóma, vald og gjædsku' er þína róma.

2. Þér af hjarta þeckum gladir, þenna lidinn sæla dag; ollum meinum af verndadir, allra leitst í mildi hag; gef ad minnumst allir á, enn nær dauda bar oss sá, gef því lífid vel svo vondum, vifs sé hlífd í þínum höndum.

3. Blund á oss lát sætann síga, sig hér þinni fødur-vorn, í nótt, sem máské ná-kold hníga, nú þín audmjúk sela børn; sofni augad dauda-dúr, draumi sálin vakni úr, frá nátt-dægra dymmu hafin, dýrdar ljósi þínu vafin.

## No. 294.

Lagid: Kom Andi heilagi.

Til hafs sól hradar sér, hallar út degi, eitt skeid-rúm endast hér, á lifsins vegi.

2. O Gud! hvørt annad nú, enn þá vor bídur, auglýsir engum þú, ódar' enn lídur.

3. Nóg er ad vitum vel: vort líf ad endi, og ad þad, eins og hel, er þér í hendi.

4. Ad um oss annt sé þér, ad sért vor fadir, hughraustir vitum vér, vissa nóg þad er.

5. Þó dagsins skundum skeid, skjótt fram ad nóttu, brádt hennar lídur leid, ad ljósri óttu.

6. Svo lífid braut er breid, til bana kissins, og daudinn eins er leid aptur til lifsins.

7. Svo lifa sérhvørr á, sem sálast egi, en andast eins og sá, sem aldrei deyi!

8. I þína umsjón nú, ástríki Fadir! felum líf, bygd og bú, blundum svo gladir.

## No. 295.

Lagid: Hvørr sem ljúfann Gud lætur ráda. (sjá No. 64 bls. 57.)

Míns Guds fødurleg mildi sparad, mig hefir enn nú þenna dag, líf mitt frá øllu vondu varad, vikid fyrir mig øllu' í hag; þacklát og audmjúk því mín ønd, þína mynnist vid fødur-hønd.

2. Mig ørlát saddi, mér nam svala, mér lédi klæda' og húsa-skjól, ad heyra' og sjá og hugsa' og tala, hjá mér enn krapta máttug ól; brjóst mitt vakti og breiðklegt ged, bendingu þinna orda med.

3. Æ! hvørr fær huga yfirfarið, ástgjafir þínar, Fadir minn! æ! held eg vel þad hafd'eg svarid: hlýdinn ad reynast sonur þinn! notadi' eg gjædi'er gafstú mér, Gud minn! sem vissi' eg þócknast þér!

4. Fyrirgef brot mín, Fadir kjæri! fyrr enn mín augu lýkja sig; þinn andi sátt og svölun færi, samvitskan þegar klagar mig; sjá! allt mitt athvarf, øll lífs von, er sá fyrir mig leid, þinn son.

5. O Drottinn! þinni umsjón anda, eignir og líf mitt nú eg fel; fullvíss ad eckert fær mér grandad, forsjón þín allt því geymir vel. Á fætur þá eg aptur rís, enn skal þér syngja lof og prís.

6. Allt eins deyjandi' eg mun hnegja, í trausti Jesú høfud mitt, eg mun þá sofna' en ecki deyja, eignast vaknadur ríki þitt, hvar þig, ó Gud! um eilíf ár, englanna prísar raustin klár.

## No. 296.

Lagid; Rís upp, mín sál! ad nýju nú.

Fyrir gott allt þig gefgum vér, Gud! sem oss nád og miskun tjer, eg þó sé mørgu minna, líksamt gæd þitt, lofqvædi mitt, láti nád hjá þér finna.

2. Hjálp í dag tjedir mikla mér, mig hjartanlega tókst ad þér, bænheyrdir blídt, sem fadir, mig og mitt hús miskunar-fús, frelstir og forsorgadir!

3. Allt hvad eg er og andi sá, í mér gladvær, sem hugsar á, ad þín dýrd eblast nædi, allt hvad minn hag, efldi í dag, eru þín meddeild gjædi.

4. Eptir þinni elsku og mátt, annastú mig um þessa nátt, sjá ei til synda minna; í daudans neyd, allsherjar Gud! adstod láttú mig finna.

## No. 297.

Lagid: Gjædskurikasti grædari minn!

Ná gengur sól ad gylltum beð, gánga vil eg því feginn með, ad hvíldar hægu rúmi; víst hefir allt mitt vinnulag, verid án slísa þenna dag, frá byrting' hans ad húmi. Gud minn! þjón þinn, færir þér af hjarta hér þad hefir hann eina, þúsundfaldlegar þackir hreinar.

2. Þad er svo margt og mikils verdt, minn Drottinn! sem þú hefir gjørt, mig vid um mína daga; allt var þad gott, eg þacka þér; þín forsjón mild útbýtti mér, því sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veiti lid mér þad eptir er og øllum líka, guddómur þinn og gjædskan ríka.

3. Gef þú oss hæga hvíldar-stund, svo hvørt og einn vid lokinn blund, frelsist af líkhams lúa; erfidid léttist æ hvørn dag, af voðum dýrd og sælu-hag, vid bestu kjør ad búa, hjá þér, þá vér, notin sáum full og fáum, fadir þjóda! þess sem í heimi gjørdum góda.

4. O Drottinn! vertú allra hlíf, annastú, Drottinn! þeirra líf, sjúkleiki sem ad þjáir. Gef þú oss hjarta gott, med aud gled þú oss svo ad hjálp í naud, hverr einn fátækur fái. Anægt, þér þægt hjartalag um hvørn einn dag og hógvært sinni, gef þú oss øllum af gjædsku þinni!

## No. 298.

Lagid: A Gud alleina.

Minn tími stendur, minn Gud! í høndum þín; enn er á enda, eitt stig af vegferd

mín; leidtogi tryggur, trygd þín enn reyndist mér; ó, hvad ørygur er sá, sem treystir þér, fyrir øllu er áliggur, einn þú best hoþum sjer.

2. Þygg mitt þackläti, þér sem gled færir end, allt fyrir ágjæti, er þín mér veitti hønd; ó! hvad eg minni er ást og þinni trygd! saurgad hef' sinni, af synda vidurstygd; vægd þó nád þín vinni, og vidrétti mína dygd.

3. Sjá! synd eg hata, þú sjer mitt hjartaþel; eg vil minn bata og bod þín rækja vel; veikum þú vægir, vilja álitur minn, hjarta þad hægir hræddu vid breiskleik sinn; nádin sú mér nægir, nálægann þig ef finn.

4. Nú fer ad nóttin, nádþurfi' eg leita þín; Gud! þinn á þróttinn, þorgód von stendur mín, síst mun mig saka, þá sit í skjóli því; þú veist ad vaka, svo værda njóti'eg frí, og mig ad þér taka, í þad hæli eg flý.

5. Í deyd ørygur er hvørr sá treystir þér, leidtogi tryggur, trygd þín þá reynist mér. Minn tími stendur, minn Gud í høndum þín, ef vilt útendud, ad skjótt sé vegferd mín; fel eg í fødur-hendur, frelsada sál' af þín.

## No. 299.

Lagid: O Fadir himneski' og eilífi Gud.

Himin-sól vendi í hafsins skaut inn, húmid oss bendir til værdar um sinn, leid svo til enda einn lífs dagur minn, líkn vannstú senda mér, Drottinn!

2. Þér, blídi Fadir! lof þýdasta bér, þú mig verndadir og øllu frá mér, grandi vísadir þin gnæfandi hér, gjæþska blessadi hvad mitt er.

3. Þú, sem vel greidir mér gæfunnar stig, gjer þad eg beidi: þín fødur-hønd mig anniſt og leidi, mín ønd ørugg sig, í líf og deyd reidir á þig.

4. Øll skal svo hrundin burt ángist og þrá, er værdar-stundin mér gledileg þá, sídasti blundur þó sígi mig á, sælum Guds fundi mun eg ná.

## No. 300.

Med sínu lagi.

Sá ljóſi dagur lídinn er, lídur ad nætur stund; himneski Fadir! hjá oss ver, hægann gef þú oss blund. Gledji' oss Gud í himnaríki!

2. Gjædskan þín allvel geymdi oss, og gód verndadi'í dag, mýkti í neyd mótlæti' og kross, umskun þín sá vorn hag. Gledji' oss Gud í himnaríki!

3. Þar fyrir allir þackar-gjørd, þér færum, Drottinn! vér, heidri þig menn, himin og jørd og hvad sem skapad er. Gledji oss Gud í himnaríki!

4. Svo margt brutum vér móti þér, megnum ei telja þad, ord, hugrenningar, verkin vér, vanda ei gádum ad. Gledji' oss Gud í himnaríki!

5. Fyrirgéf oss nú, Fadir kjær! þad fremdum þér á mót, oss nýjann dugnad aptur fær, ydrun ad gjøra' og bót. Gledji' oss Gud í himnaríki! 6. Af-

6. Adgiæt þú oss nú enn í nótt, oss verndi mildin þín, ad sofna kynnum sætt og rött, svipt-ir frá allri pín. Gledji' oss Gud í himnaríki!

7. Þó líkaminn hvíliſt haldtú þó, hönd þinni yfir mér, gef þú ad allir ødlumſt ró, oss forda meinum hér. Gledji' oss Gud í himnaríki!

8. Ad morgni aptur uppvek þú, oss á hag-qvæmri tíd; svo af oss þá í sannri trú, syng-iſt þér lofgjørd blíd. Gledji' oss Gud í himnaríki!

9. En þegar endaſt æfi-tíd og kémur vor dauda-ſtund, veit oss, Jesú! hún verdi'ei ſtríd, værann gef sídaſta blund! Gledji' oss Gud í himnaríki!

10. A enda heimſins oss sért hjá, innleid í dýrd med þér; lát oss eilífann føgnud fá og frid þegar deyjum vér! Gledji' oss Gud í himnaríki!

## No. 301.

Lagid: Jesú þínar opnu undir. (sjá No. 40 bls. 40.)

Hvíldir nætur húmid bodar, Herra! sál mín gledſt í þér, enn þín ſtyrdi øllum voda al-vøld hønd í dag frá mér, heilsu, blessun, fjør og frid, fann eg andar-tak hvert vid, síns Guds áſtar undrum lýſi, ønd, mín þacklát, losi, prísi.

2. Var eg í dag sá vera ſkyldi, vitna þad mitt hjarta í qvøld! ávann óþreytt míns Guds mildi mig, ad fordaſt glæpa vøld? æ! eg blygd-aſt, auga þitt, alſkygni! sjer dagfar mitt, æ því gjørr þad yfirvega, æ því meir eg fylliſt trega.

3. Fús

3. Fás þú brotin fyrirgefur, Fadir! svo menn elski þig, í þad skjól mín ønd sig vefur, audmjúk, trúgód huggar sig, vid míns Jesú qvala-qvøld, þá qvittadi hann mín synda-gjøld, fyrir hann eg vænti vægdar, og veit þad eitt til hug-ar-hægdar.

4. Ljá mér, Fadir! fylgd þíns anda, ad framqvæmt gèti eg áform mitt, æ því meir mig allann vanda, sem afbrot fleiri gafst mér qvitt; eg sofna, veit senn af mér ei, eg er þinn hvert lifi eda dey, í fødur-hønd, minn Fadir! þína, fel eg líf og sálu mína.

## No. 302.

Lagid: Gjef þinni kristni gódann frid.

Gud Fadir! sem oss geymir vel, gjædsku mátt þinn eg prísa, þitt enn ad lofa ástar-þel og miskun þinni lýsa, skal mín þacklát vanda vísa.

2. Eg, sem þins anda ástgjøf hlaut, er þínum trygdum minni, vesæll til þeirra vægda, er naut, vann ei af miskun þinni, synd uppgafst mér enn eitt sinni.

3. Gud heiløg vera gód og trú! Gud minn, Gud fedra minna! frá módurlífi minn varstú, æ! mætti eg verdur finnast, í telu barna teljast þinna.

4. Leid mig þitt endurlífnad barn, lát andar frid mig næra; nú sofna eg, Fadir gjædsku-gjarn! gef mér hvíld tryggja og væra; til dóms lát mig ei dúrinn færa!

Q. 5. Fadir!

5. Fadir! oss háska fórda' og neyd, fel eg þér mig og mína; þér treysti' og ad mér tek þinn eid, trygd hef' eg reynda þína, aumum miskun enn munt sýna.

## Nô. 303.

Lagid: Himna-rós, leid og ljós.

Gudi vêr, hefjum hér helgann qvøld-saung, dagur lidur, fagur fridur, fæst því hvíldin hæg, þjódum þæg, því skal hvørt sinn, líf og sál, lika mál, lofa Drottinn!

2. Eilíf nád, allt vort rád, annast: hefir, slisa-føllum afstýrt øllum, oss frá; sýngi þér, allt hvad er, ædst lof, Gud minn! líf og sál, lika mál, lofi Drottinn!

3. O! hvad mjøg opt hef eg illa mót þér, dygdum hafnad syndum safnad, sál mín, kallar því eymdum í, á þig, Gud minn! lifid hér leidist mér, leys mig, Drottinn!

4. Veittu ró, frid og fró, Fadir! í nótt, lát ei hrædá mig né mæda mein þúng; kraptur þér med sé mér, máttugur þinn; góda nótt, gott og rótt gef oss, Drottinn!

5. Bljúg er mín bæn til þín, besti Gud! enn, ad mig geymi hér í heimi hønd þín; verndin þin vernin mín veri hvørt sinn; góda nótt, gott og rótt gef oss, Drottinn!

6. Eg fel þér allt hvad mér ádur gafstú, sálu' og lifi hjálpi' og hlífi hønd þín; allt hvad er medur mér, mikli, prís þinn; líf og sál, lika mál, lofi Drottinn!

## 5. Bord-Sálmar.

### a.) Fyrir Máltid.

#### No. 304.

Med sinu lagi.

Fadir á himna hæd! hvørr fyrir Jesú nád, elsku pína oss vottar, ønd og líkama mettar!

2. Hvad um lopt, haf og jørd, hefir tilsetta ferd, forsorgar þú og fædir, fjølgar, annast og klædir.

3. Med lofgjørd og lotning vèr, líka sem kristnum ber, þyggjum í dag þacklátir, þitt lán, sem ad oss veitir.

4. Lát oss í hreinum hug, halda oss vid þinn veg, svo med samvitsku gódri, sedjumst vóru fódri.

5. Hjálp oss nú, Herra kjær! svo heidur þinn eblum vær; fyrir Frelsarann Kristum, Fadir! á þig treystum.

Vèr þøckum þèr, hinn gódi! (sjá No. 268. bls. 215.)

### b) Eptir Máltid.

#### No. 305.

Lagid: Kristi! vjer allir þøckum þjer.

Gud vor Fadir! vèr þøckum þèr, fyrir þinn son Krist vorn herra, af mildi þinni, sem

margföld er, manneskjur vyrdist næra, og allar sképnur, sem eru med önd, oss hefir sadt þín milda hönd, lof sé þér æ og æra.

2. Herra! sem mettad hefir nú, hold vort, sem deyja hlýtur, sál vora einninn sedjir þú, sem aldrei deyr né þrýtur, ord þitt er hennar abl og megn, ad strída synd og löstum gégn, uns med þér nádar nýtur.

3. Himna fødur á hvörri tíd, heidrun mesta sé framin, sá oss qvittadi syndir vid; fyrir soninn til vor kominn, hjálparann Jesúm Herra vorn, hvörr oss þín gjördi óska-börn, ætíd lofum vér, Amen!

## No. 306.

Med sínu lagi.

Heidrúm vér Gud af hug' og sál, hans lof vor túnga syngja skal, ad sína gjædsku syndi ljóst, saddi oss vel med dryck og kost; sá, öllu holdi fædu fær, fædt hefir oss nú Drottinn kjær, þad állt hans mildi þøckum vær.

2. Þøckum honum nú þjónar hans, þad er æ skylda sérhvörs manns. Játum ad oss elskadi hann, af nád sinni skapadi mann, med húd' og hold' blód' og bein, bygd er sú hellsta sképnan ein, og sídan géfin sálin hrein.

3. Gud hefir veröld vel tilreidt, vanta lét ei á næring neitt, fjöllin og dali frjófgar hann, fénadinn gras ei vanta kann, vex af jördunni vín og braud, veitir þad hvört ár mildur Gud, og hjálpar svo af húngurs naud.

4. Fiska

4. Fiska veita oss vøtn og sjór, verdur af þessu björgin stór, eggin og fugla eignumst vér; oss til atvinnu skapad er, naut, geitur, svo og sauda-fé, sjálfur Gud lætur oss í tje, svo ad vor næring nógleg sé.

5. Þøckum honum og þyggjum nú, þad hann géfur oss sanna trú, hafum því æ í hjarta sett, halda bod hans í vorri stétt; svo jafnan øll hans heiløg hjørd, heidri hans blessad nafn á jørd, þad skal vor allra þackargjørd.

## 6. Brúdkaups-Sálmar.

a.) Á undan Hjóna-vígslu.

Í nafni Jesú athøfn má. (sjá No. 48. bls. 47.)

### No. 307.

Lagid: Gjædskurikasti græðari minn.

Fyrstu brúdur til fyrsta manns, framleiddi mildin skaparans, ó! hjóna-bandsins herra! þínum af himni þau álít, þitt sem nú koma fyrir auglit, ebl heill og heidur þeirra, í heim' æ þeim, vyrdst lidsinna, lát þau finna líkn af hædum, blessa þeim lífsins lán og mædu.

### No. 308.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Hér lífsins Herra Gud vor Gud! gøfgun og lotning sýnum, þú skapar ljós og lífs føgnud,

ud, líka med krapti þínum, ástir tendrar í úngdóms barm', allt eins fullordinn styrkir arm, og heillum audgar sínum.

2. Frábærlega jørd fogur er, full med øll hentug gjædi, þau ef ad eins rétt þecktum vér, og þeckt hvørr brúka nædi, armædan sjálf oss yndi fær, á þyrni-qvistum rósin grær, liftjón lif betra grædir.

3. Hvørr sá hér vina situr í krans, sem ei med gledi-tárum, velgjørdir telji verndarans, veittar á barndóms árum? ó Gud! þær reiknad enginn fær, í dag þó vilt þú mikla þær, med nádar nægdum klárum.

4. Þar fyrir prísum þrávallt vér þig, Fadir allra lýda! gamlir og úngir greida þér, gøfgun um heiminn vída; á himni' og jørd' í hvørri átt, hljómi sú lofgjørd dag og nátt; blessad sé nafn Guds blída!

5. Blessa þann dag nú egum á, ástanna gledi' ad sæta, og brúdhjóna lags, er byrjast á, í blessun vyrdstú gjæta; blessa hvørn aldur, stétt og stand, styrk og blessa vort fødurland, lát eining ást innræta!

## No. 309.

Med sínu lagi.

Heimili vort og húsin med, nema herrann byggja vildi, árlega blessi bú og fé, bjørg svo hvørr hljóta skyldi, af gjædsku hans og guddóms nád, sem gjarnan eblir allra rád, annars vor ydja' ei gyldir.

2. Nema

2. Nema Gud sjálfur styrki stad og stjórni borg og landi, hlífi og gæti öllu ad, svo engu stofnist vandi, gêfi og sjálfur gódann frid; gagnlaust er þó ad vaki lid, fær engu fordad grandi.

3 Lítid ávøxt og ydar børn, af Gudi þau hafid þegid, hagavæma fá þau hjálp og vørn; hans lán og gáfur segid: forsjón vill hann þeim veita vel, vís þeirra fæda' hún ávallt er, sjálfir þad sanna megid.

4. Eins og ad pílur ecki fár, øblugur hefir í hendi, þángad sem hugdi hann sér til fjár, sérhvørri frá sér renndi, mátt Guds og vilja merkir þad, mann og qvinnu úr ymsum stad, til samvista hann sendi.

5. Sæll er sá mann þeim gêfur Gud, gjæfusamt lánid barna, óvinum qvídir ecki vid, þeir hfa hann ei gjarna, øfund og neyd ef hann vill þrjá, hjástod ørugga hefir sá, volædi sér ad varna.

6. Fødur, syni og anda sé ædst dýrd um jørd og himin, eins sem hún var ad upphafe, án enda verdi framin; kênn oss ad halda kristinn sid, qvittast og skiljast syndir vid, sá þad vill, syngi: Amen!

---

b.) Eptir Hjóna-vigslu.

## No. 310.

Lagid: Gjædskurikasti grædari minn!

Þau féllu' ad þínum fótum hér, Fadir! einum treystandi þér, gódra því adstod ertu! þad

bandið tryggða blessa þú, blíðri með födur-hendi nú, sem trúlynd tengir hjörtu, æ með gladt géd, lifsins feta géf þeim götu' og gledi næga, í þíns fridar skauti og skjóli þæga!

## No. 311.

Lagid: Gjædskurikasti grædari minn.

O Gud! þín mild og heilög hönd, hjúskapar gaf á jördu bönd, þig bidjum, helgur Herra! géf þessum hjónum heill og náð, hjartans eindrægni, yndi, dáð, þeirra lát yndi' ei þverra, þau leid, þeim greid hjálp ad bera, hvad sem skér, svo heit adgjæti, vongód í hrigdum, vor í kjæti!

# 7. Katekisatsíóns - Sálmar.

## a) A undan Katekisatsíón.

## No. 312.

Lagid: Kristi! vjer allir þökkum þjer.

Í nafni Jesú nú, vor Gud! nálæg hér börn þín standa, ord þitt í gledi eins og naud, oss færir líf til handa; svo þad til gagns vors sánna vér, sëum fúsir ad læra hér, géf öllum oss þinn anda.

## No. 313.

Lagid: Heidrum vjer Gud af hug' og sál.

Alvíst Gud! lát ord þitt blídt, útbreidast heims um löndin vídt, góda þeim ángu géf sem

fyrst, til gudrækni's og dygda lyst, þinn kraptur ædri öllu er; úngum og gömlum kénn því hér, gódi Fadir! ad gédjast þér.

b.) A eptir Katekisatsíón.

No. 314.

Lagid: Gjædskurikasti grædari minn!

Nádugi Gud! vér þöckum þér, þad oss úr myrkri leiddir hér, og qveiktir ljós þitt klára; kénndir oss þeckja þig og hann, þú hvörn útsendir Lausnarann, strax á tíd æsku-ára; gjef þú, gef þú, ávöxt færi ad vér lærum lifa og deyja; frelsarans bodord, sem fyrir segja.

Vér bidjum þig, ó Jesú Krist! (sjá No. 130. bls. 107.)

8. Konfirmatsíóns - Sálmar.

a.) A undan Konfirmatsíón.

No. 315.

Lagid: Óvinnanleg borg er vor Gud.

Þessi dagur, ó Gud, vor Gud! gef vel oss blessast nái, vid þig oss bind og vid þín bod, veit trúarstyrk hvörr fái; Fadir! hér fyrir þér, þú fólk úngt, gamalt sjer; oss, Fadir! álít þú, med ædstu mildi nú, andi þinn lid oss ljái!

2. Þitt leggðú úngum orð í munn, innra þess kraptur brenni; að trúna og hennar atrið kunn, æ fölskalaust meðkenni. Þeir fyrri færðust þér, fyrir þeim báðum vér, skírðust til þins nafns þá, þig, Guð! nú treystum á, von sú uppfyllast vinni.

3. Náðar sáttmál ánýja þú, nú við börn þessi' og síðan; lát, já! það, sem þau segja nú, síst þeim úr minni líða; en breiskt þó er sérhvert, einn þú máttugur ert, hjálpa með styrkri hönd, hvörri frómlyndri önd, til enda trúrri' að bíða.

4. Og nær þau húsum feðra frá, flytjast í veröldinni, trúarbrögð, Jesú! þú lát þá, þeim vera' í fersku minni; svo hlýðin þjóni þér, á þig treysti' einn, sem ber, yfirgafstú' aldrei þann, á þig sig reiða vann, og föðurlíkn fela þinni.

## No. 316.

Lagið: Gjæðskurikasti græðari minn!

Ó Faðir, son og andi! þinn, óryfinn stendur sáttmálinn, eg þó mín orð ei haldi; æ! minn mig jafnan á minn eið, en ef eg skeika' af réttri leið, unn mér það ángri valdi; hvørt þá hér má, vita, Guð! þú veitir náð, því viljum glaðir, á sáttmál þitt treysta tryggvi Faðir!

---

### b.) Eptir Konfirmatsíón.

## No. 317.

Lagið: Lofið Guð! lofið hann hvørr sem kann.

Drottinn! þú Drottinn, að hátign stór! æskan nú, einlæg en hvikul sór, þínum merk-

jum undir œ, og dygdar stríða. Seig þú: børnum lið eg ljœ, lœt þau heill bíða! Guð er hjá, Guði ef hlýðið; faðir sá, sjer hvað bágt líðið; örugg þá, elskuð børn! stríðið, sterk er Drottins hjálpar-hønd. :||: Yðar faðir elskar heitt elskendur sína :||:

2. Dygða skeið, skundið nú kjœru børn! en sú leið, er hœtt og villugjørn; hœttri villu þurfið þér, þó síst að qvíða, ljós, á vegum yckar er, orð Drottins blíða; Guðs forsjá, greiðir veg ydur, hœttum frá hvervetna ryður, alla þá, almáttug styður, sem ljúft er að Drottinn leiði sig. :||: Hann er sœll, sem hlýðir fús, himnanna Guði :||:

3. Varnir hér, hlustið orð Drottins á! hræðist þér, að hneixla børnin smá! Drottins raust, af hœrstu hæð, hátt dunar þanninn: "mín "skal heguing hitta skjœð, hneixlunar-manninn;" en hvørr sá, er villtann leiðir, veginn á, veg sjálfs síns greiðir, sœlu'að fá, sem Guð tilreiðir þeim, er kœrleiks vinna verk. :||: Gjøri hvørr að gjœta sín, Guð Drottinn allra! :||:

## No. 318.

Lagið: O Drottinn allsvaldandi!

Guð! faðir orma' og anda, eilíf, trúfœst verkan merk! óbifuð orð þín standa, þó alheims falli bygging sterk; veit oss trú, vel að halda, ef veikist sú, styrk margfalda við oss þú, og veikleiks lát ei gjalda!

## 9. Reformatsíóns-Sálmar.

### No. 319.

Lagid: Vari nú Gud oss ecki hjá.

Gud ljóssins fadir gódi! nú gefgi-pitt náfn vort hjarta, úr ljótu myrkri' oss leiddir þú, í lærdóms skin Jesú bjarta, þá myrkur skýldi' og þoka því, þú sagdir: "verdi ljós á ný!" drógst svo frá dymman svarta.

2. Pína kirkju stríddi illskan á, en, Gud! þú nádir styrkja; hug og dug gafstú þínum, þá þeir lýstu' upp veginn myrkva, svo frelsi' og ljós oss fell í skaut, slýja hjátrúar veldid hlaut; sem klettur stód þín kirkja.

3. O Gud! lát oss ei optar sjá, aldanna myrku daga; og lát Kénnendur aldrei fá, oss sem á tálar draga, svo allir kristnir eins og ber, þig elski, þeckí' og hlýdi þér og þínum elskulega.

4. Öll blessan, Drottinn! er hjá þér, oss blessa þú af hædum; kirkjunnar ætid verdur ver, vernda frá ófrid skjædum; á jørd trú mann-dygd oss skal þá undirbúa, svo himnum á, ljóssins Gud lofa nædum.

### No. 320.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Gód stendur, Gud! þín kirkja, grundvøllud, føst, óhrærd; hana vannst stydja' og styrkja gegn strids ofríki' og flærd. Illskunnar megnt ofbeldi, ei hús þitt bifa má, mótstendur myrkra veldi, merkum byggt sannleik á. 2.

2. Elknsami Fadir ljósa! oss leiddir fund þinn-á; allir, sem inngáng kjósa í hús þitt, gjarnan fá. Þá bandstú, burtu lída blindni og hjátrú vann; lofgjørd þér lúkum blida, í Ljósi því, upp sem rann.

3. O Gud! oss unn ad læra, hvad ertu mildur oss, og í nyt ord þín færa, svo ødlumst dýrdar hnoss; æ medur oss þitt skjæra; orda-ljós Drottinn! geym; lát þess fridarbod færa, farsæld um allann heim!

---

# 10. Kirkjuvígslu-Sálmur.

---

## No. 321.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Þig innilykja, ó Gud! kann, ei jørdin, hús né stadir, himnanna enginn himin vann þig, himna taka Fadir! alla hluti þú ætid sjer, einninn þann søfnud sem ad hér, þig dýrkar, þig ákallar, vor hjørtu bljúg sig hefja nú, himnanna til hvar sjálfur þú, drottnar um aldir allar.

2. J nafni Jesú oss lít á; eptir hans fyrirheitum, hús þetta blessa, heyr oss þá, hér þinnar nádar leitum. Hér heyrum vér þitt heilagt ord, hér setjumst vér vid Jesú bord, hér dygdir helgar lærum; þú, Fadir! rétt oss þína hønd, þinn andi styrki vora ønd, ad gódann ávøxt færum.

3. Margur sem hrigd í brjósti ber, hvern buga mótgángs hleckir, athvarfs leitar og hjálpar

ar hér, hans mædu best þú þeckir; leid hann ó Gud! af ángist út, og lát hvørn þann, er þjakast sút, frelsis stund finna þína; svo hann med gédid gladt á ný, gáugi mustcri sjálfs þíns í, þackláti hér ad sýna.

4. Þig bidjum vér í þessum stad, þú, Fadir allra þjóda! vort blessa land og vernda þad, veit því frid og heill góda, í nafni Jesú oss heyr þú, í nafni Jesú von og trú, á hans ord ætíd festum: ad þú oss veitir, Herra! hér, hvørs í hans trausti bidjum vér, og oss er æ fyrir bestu.

5. Ásídan, Gud! med engla her, um eilífd samstemmandi, fegri lofsaung vér færum þér, á farsældarinnar landi, þar fáum vér þig sjálfann sjed, og son þinn Jesúm Kristum med, sem megum vin vorn kalla, þar gefur þú oss frid og frægd; fegnud, vegsemd og gjæda nægd, Drottinn! um eilífd alla!

## II. Fridar-Sálmur.

### No. 322.

Lagid: Herra! þjer skal heidur og lotning greida.

Bjódid lof þeim böli og neyd afvendti, burt er strid, sem oss med naud umspennti, bæna gádi, grimd afmádi, Gud alrádi, og sína nád oss sendi.

2. Herrann ædsti hýr oss gaf ad fridur, frá himni sté til vorra lánda nidur, hann oss kjætir,

hvad sem mætir, hrigd upprætir, barn adgjætir, er bidur.

3. Gud! med lotníng þér sé þöck vör samin, þinn lofstýr um öll heims löndin framinn; þig, er gridin, gjæfu lidid gafst og fridinn, einn tilbidjum, Amen!

## 12. Huggun í Sjúkdómi.

### No. 323.

Lagid: Af djúpri hrigd ákalla' eg þig.

Eg farsæld lífsins ádur sá, á mínum gledi-dögum, ótal gladværdir átti'eg þá, í eptirlætis högum; vil eg því nú veikleika med, vardveita jafnan rósamt géd; þó særist sorgar slögum.

2. Eg má syndara aumann mig, ó Gud! fyrir þér játa; óhlýdinn er eg þrátt vid þig, þú agar samt í máta; skal eg sekadur ekkert þá, álag tímanlegt borid fá, og mig leidrétta láta!

3. Fadir! mig allann fel eg þér, forsjón þín ad mér gæti; hvört sem þú lengra lénar mér líf, edur heli'eg mæti, á þér einum skal allt mitt traust, ásjá mannanna'eg trúi laust, þú hjálpar, huggar, bætir.

4. Eg þá trúadur út af dey, ersd mín er víss á hædum, mitt andlát því eg óttast ei; ellegar grafar hrædu; og þó eg ráfi' um daudans dal, Drottinn! nád þinni'eg treysta skal; þú ert hjá mér í mædum.

5. Harma-

5. Harma-tølum skal hrinda frá, en heidur Gudi veita, med þolinmædi' honum hjá, hjálpar og nádar leita. Jafnan í naudum hugsa hér, hvørsu líknsamur Drottinn er, hann einn kann øllu' ad breyta.

## 13. Vid Kirkjugáng Mædra eptir Barn-Burd.

### No. 324.

Lagid: Gjædsku Guds vjer prísum.

Lof dýrd um aldir alda, ó Gud! þér sýngjum vér, þygg lofgjørd þúsundfalda, þú veikum miskun tjer! oss þegar ángur skér, í fødur umsjón tekur og aldrei burtu rekur þá, sem ad treysta hér.

2. Hættar þrautir sem þjádu, þær hvurfu, gleymdist hver, og yndæl ord vid-qvádu: einn madur fæddur er, arftøku von sem á, í dýrdar-ríki ædstu; ó von, án líka, stærstu! hverfa burt hrigd øll má.

3. O! vor Gud! veit hverr módir, vel børn uppali'um heim, ávextir ydju gódir, eilífd farsæli þeim, upp þá risin af grøf til gledi, gladvær segi: Gud! hér er ég og þegin af þér hin góda gjøf!

# 14. Á Fædíngar-degi Manns.

## No. 325.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín!

Fyrir mitt líf eg þacka þér, á þessum degi' er gafstú mér, Guð! þér eg gøfgun færi, að þín náð til þess þöcknun bar, það eg af engu skaptur var; líf mitt sú náðin nærir.

2. Undarlega þú um mig bjóst, við umsjón þína fram eg dróst, að augnabliki þessu; gledi-dag margann gafstú mér, grátur og þjáníng umbreytt er, í farsæld, frið og blessun.

3. Overdugann medkénni' eg mig, margfaldrar náðar lífs um stig; ó! þú allsherjar Herra! mig jardar-dúptið minntist á, í mildi þinni eilífð frá, svo farsæll fengi' eg vera.

4. Þú sást og heyrdir mædu mín, mín andvarp taldi forsjón þín, fyrr enn eg skapnad fengi, minn deildann verd útmældir mér, miklu fyrr enn eg beiddi hér, þá eg var enn þá enginn.

5. Þú létst mig fyrir þér finna náð, frá eilífu þín vitsku-dáð, synd alla sá þó mína. O! elsku' og náð! þá aumum mér, allrar veraldar Herra tjer; ó Fadir, forsjón þína!

6. Að lífið mitt adgjættir þú, að lífs og heill hér stend eg nú, að lífs ánægju' eg smacka, að undarlega' útleiddir mig, og híngað til um gjæfustig, þér, Fadir! allt eg þacka.

7. O Guð! ef lifa lengur á, leggdú mér til það gagna má, af þér eg vona þessa; eg líf og

sál afhendi þér, æ Herra! vyrdstu' ad líkna mér, vernda mig best og blessa!

## 15. Ferda-Sálmar.

### No. 326.

Lagid.: Fadir vor, sem á himnum ert.

O þú Guds barna geymarinn! sem greidir inn og útgáng minn, í nafni þínu nú vil eg, naudþurft ferdast á minn veg. ó Drottinn! bjód þú englum þín, á leidinni þeir gjæti mín.

2. O Drottinn! vyrdstú ad mér gá; ó Drottinn! leid mig til og frá; hönd þín mig verndi hvar eg fer, háskanum vísi burt frá mér; ó Drottinn! skildú ei vid mig, einka förunaut kýs eg þig!

3. O Drottinn! geym mitt megn og mál, minn líkams krapt og veika sál, húsid líka og heimkynnid, holla vini, sem skilst eg vid, gjættú þeirra og gef mér þá, glada og heila aptur sjá.

4. O Drottinn gódi! annast þú, áformid minnar reisu nú, taktú mig ad þér, trútt og vel, tilsjón þinni mig allann fel, slisförum öllum varna vid, vertú minn Gud á alla hlid.

5. O Drottinn! eign mín æfinleg! af þér lifi og hrærist eg, fyrir mig Jesús út gaf önd, af því leid mig vid sterka hönd, einkum þá eg skal falla frá, farsæla reisu gef mér þá.

a.) Vid

a.) Vid Húsfedurs lánga Burtfør.

No. 327.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Þú þeckir, Gud! vort áform allt, og vorn fótstig þú greidir, ydn góda blessar eiñ ávallt, allt stydur, vernd-ar, leidir; eg byrja ferd, en bid: ad þú, blessir mitt áform líka nú, háskasemd allri eydir.

2. Gief heilsa, þol og heill frá þier, hjá mjer á vegum búi, svo hagsæld finni eg hvar eg fer, og heim med gladværd snúi, um vøtn og land mót voda hag, vertú minn skjøldur nótt og dag, eg þinni tilsjón trúi.

3. Ástvini mína ei forlát, þú ert minn og þeirra fadir, heimkyñi mínu haf á gát, hvad sem mjer úthlutadir, heima-fólk, eignir, ástand, líf, almættis þinni fel eg hlíf, gief aptur finnumst gladir.

4. Eg svo í fridi reisi rór, ræki mitt kall med dádum, og held til baka, hitti frór, hús mitt gladur í nádum, og á-samt mínum eptir það, eg þig prísa og dáist ad, þiñi vernd, þínum rádum.

---

b.) Vid Húsfedurs Apturkomu.

No. 328.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Mitt hús enn stendur, þøck sie þier, þú Gud! sem geymd-ir mitt hvad er; margur heimkowinn hús sitt fann hrapad, velbyggt sem qvaddi hann, en stormur, vatnsflód, eldur braut, ørsnaudur svo hann ráfa hlaut.

2. Þú heyrdir, Drottinn! þad eg bad, þá eg og mínir skildumst ad, þú hefir vardveitt þá og mig, þín nád oss fylgdi mildilig, ferd mína hefir framad þú, finn eg allt-skadlaust heima nú.

3. O Gud verndarinn! eg þig bid: oss hjer framveg-is haldtú vid, ad med fridsemi eins og her, úmgángast mættum gladir vjer, og lifa þar til æfin dvín, í bæn og trú og von til þín.

4. Öll vor fótspor og allann hag, annist þín forsjón nótt og dag, þín hønd oss leidi, Herra kjær! hvar sem vjer gaungum, nær og fjær, og gjef sídast, ad sælir vjer samfögnum upp í dýrd hjá þjer.

## 16. Vid opinbera Aflausn.

### a.) Fyrir.

Nádugi Gud! fyrir nafnid þitt, 8da vers af No. 138. bls. 115.

### b.) Eptir.

Minn Gud! eg má þad játa, (sjá No. 145. bls. 120.)

## 17. Vid Líka Uthásningar.

### No. 329.

Lagid: Þann signada dag vjer sjáum nú einn.

Dagur svo lángur aldrei er, ad ei med qvøldi lendi, daudinn lífid dregur med ser, dapur í burt úr hendi, vjer skulum út, en grøfin er gjør, þar gjefst ei annar endi.

2. Gud gjefi þad svo þjónum vjer, í þessari verøld iñi, ad Guds son med trúñi taki hvørr, svo traustlega miskun fiñi; þá heimurinn frá oss hallar ser, hjálp vor aldreji linni!

3. Nær førum vjer í vort fødurland, og úr fárinu skulum venda, gjef eg mína sálu Gudi'í hand, í gledi himnaríkis senda. Gud fadir, Guds son, Guds heilagur andi, gjefi oss gódañ lífs enda!

Lof se Gudi vorn lausn er gjørd, (sjá No. 92. bls. 81, 2ad, 4da og 5ta vers.)

### No. 330.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Andlegann styrk mjer auktú þá, ó Gud! nær verøld skilst eg frá, svo gjedrór mína gjefi'eg ønd, gódi Fadir! í þína hønd; hørmum míñum í huggun sniú, og himninum fyrir mjer uppljúk þú!

# Registur

Yfir Sálmana, eptir Upphafs-støfum.



Annad

# Annad Registur
## Yfir Sálma Løgin í Bókinni.

48. Kiær

# Einføld Utskíríng

## Yfir þau 3 nóterudu Sálma Løg, sem finnast í Bókinni, og um

## reglulegann Sálma-saung.

Hid fyrsta nóterada lag finnst hjer vid No. 40, nefnilega Lagid: Jesú þínar opnu undir, sem opt fyrirkjemur, og þad fyrsta adgjætnisverda teikn fyrir framan Nótúrnar þar, er þetta: ||Z, edur Saung-lykilsins merki, sem hjer stendur med mid-odd zethunnar á nedstu línu, heitir því og þýdir C, og hvør sá nóta, hvorrar høfud stendur á þessari nedstu línu, nefnist þar eptir c; er þá audrádid hvad hvør þar fyrir ofan heiti; bædi á milli efri línanna og á þeim, þegar madur veit, ad heilir tónar í saung eru alls 7, og nefnast: c, d, e, f, g, a, h. Þegar hærra kjemur, verdur hvørr hækkandi tón, øldúngis samhljóda þeim 8da fyrir nedan eda ofan, hljódin hlaupa þar sem í eitt, og því nefna menn milli-bilid á milli hvørra 8 tóna, ad bádum medreiknudum, Octøvu; hvør nóta fær því sama nafn og hin 8da fyrir ofan eda nedan. C, edur sú nóta, sem stendur á sømu línu og Saung-lykillinn, er annars sú lægsta nóta, sem Sálma-saungum almennings er ætlud, og einúngis gód og lidug hljód gjeta fáar enn lægri tekid, enn þótt þær ei fyrirkomi í Sálma-nótum. Hvørr þess vegna, sem vill læra ad þeckja, hvørr tón heyri rjettilega til hvørri nótu, skal fyrst gløggt þeckja nótu-nøfnin, sem læra má af þessum línum og bókstøfum, med gódri æfíngu:

Octava.



A þessum nótum veltur í øllum Sálma-saung; hærri eda lægri mega ei í honum fyrir koma, því þó sácinir gódir radd-menn komist litid eitt hærra edur lægra, þarf þad engum heilum søfnudi edur almenníngi ad ætla, enda verdur hjá flestum allur saungur hærri edur lægri litt heyrilegur. Auk þessara heilu tóna í hvørri Octøvu, fyrirkoma hálf-tónar. Til þeirra er vísad annadhvørt, med × eda b. sem sett er framan vid nótuna; hvar sem × stendur fyrir framan nótu, skal hún syngjast hálfum tóni hærra enn edlilega, eda midt á milli hennar venjulega tóns og þess næsta fyrir ofan, en sú sem b. stendur vid, takist hálfum tóni lægra, enn stædi þar eckert teikn. Eptir þessum teiknum breytast og nótu-nøfnin margvíslega, t. d. standi × fyrir framan c. nefnist þad cis, fyrir framan d, heitir þad dis, fyrir framan f, er þad fis, fyrir framan g. verdur þad gis, og hvar b. finnst framan vid nótur, t. d.: vid e, heitir sú nóta es, fyrir framan d, heitir hún des, fyrir framan h, verdur nafnid b, og margar eru þessar breytíngar fleiri, sem hjer er ei þørf ad framtelja, bædi af því ad fleiri, enn þær hjer nefndu, koma traudlega fyrir í Sálma-saung, líka og þess vegna, ad enn margbreyttari nøfn rugla vidvaníngа því heldur, sem fleiri eru. Hier þykir því nóg fyrir almenníng ad vita heiti høfud-tónanna og þeirra heilu, sem í Sálma saung koma fyrir, en undir eins hvørja verkun, í tilliti til hærra eda lægra tóns, fyrrgreind teikn ×. og b. fyrir framan nótur, gjøra í saungnum, hvad nú var sýnt.

Standi × eda b. í upphafi saungsins, eins og sjest vid No. 40, þýdir þad, eins og þar, ad allstadar í laginu, hvar nóta fyrirkjemur á sømu línu eda í sama millirúmi og × stendur, skuli sú nóta takast hálfum tóni hærra enn annars; hjer stendur nú vid No. 40, × í f. rúmi, því heitir nú f, hvar sem þad fyrirkjemur í þessu lagi fis, og

og skal sýngiast hálfum tóni hærra enn f. venjulega. En standi b. í upphafi, skal tóninn verda hálfum tóni lægri allt lagid út, hvar sú nóta fyrir kjemur.

En hvørr er sá mátulegi tón, sem samsvarar rjett hvørri nótu? Það er nú það nærsta, er námfúsir saungmenn þurfa ad læra, og erfidt mjøg er það af egin ramleik, hafi menn ei hentug hljódfæri, eda þeirra tilsøgn, er rjett kunna saung, til ad læra það af. Þó hentar ei annad, enn ad madur med æfingu fái ferdugleika í, ad gjeta sett þann rjetta tón uppá hvørja nótu sem fyrirkjemur í saungnum, hvørsu mjøg, sem rød þeirra eptir løgnunum biltist, já, fái þá svo innrætta skilníngi sínum og eyrum, ad strax verdi rjett sagt, hvørr sem lagid byrjar, hvørt það se mátulega hátt eda lágt, og í þeim tóni, sem nóturnar tilvísa. Med egin ástundun og ydugległi æfingu gjetur sá lángt komist, sem opt vennr sig á, frá nedsta tóninum c, ad sýngja hann og alla hina 10 ad f. í hærri Octøvunni upp eptir og ofan eptir aptur, og tekur vandlega eptir, hvørt hann vid hvørja nótu hækkar eda lækkar hljódid nockud eda nóg, og hvørt það í lækkun er jafnhátt á hvørri nótu, eins og það var í hækkun. Sama skal æfa vid hálftónana, sem ádur eru nefndir bls. 276. þarmed venst madar smámsaman á ad þeckja utan bókar það rjetta hljód, edur þann tón, sem hvørri nótu heyrir, þecki hann þær annars sjálfar vel gløggt ad nafni og útliti.

Það er allopt ad ✕ einn eda fleiri í upphafi laga gjøra sauninn hardann eda ásamt gjefa til kynna ad hann se þanninn (durus) í laginu, en b. þarámót linann (mollem). Jafnadarlega koma því í hørdum saung fyrir nótur, á stundum margar, med ✕ fyrir framan eda í upphafi, en med b. í linum saung. Lýsing og falleg løg gánga flest í hørdum saung, en sorgleg og leidinleg í linum, þó eru og mørg allþægileg í linum saung ad finna. Standi ♮ fyrir framan nótu, gjefur það

til kynna, ad hún egi ad takast med reglulegum tóni, en ei þeim, sem undangengin teikn X eda b. hafa fyrirsømu nótur áskilid.

Þessu nærst hlýdir nú ad minnast á Taktinn. Svo nefnist viss útmæling og nidurskipan alls reglulegs saungs; hann mælir þá tíd, í hvørri viss fiøldi nótna egi ad sýngjast edur spilast; serhvørju lagi er því skipt sundur í jafna parta edur takta, sem í nótunum eru gjefnir til kynna med þver-strikum. Allar þær nótur, sem í upphafi eru fyrir framan þver-strik, útgjøra því 1 takt, og allar sem eru á milli hvørra tveggja þver-strika þar eptir, 1 takt, hvørt margar eru eda fáar. Hvørr takt, eda þær nótur allar, sem hans millibil inniheldur, skal ætíd sýngjast eda spilast jafnfliótt: med ødrum ordum: á sama tíma skulu t. d.: 4 nótur, sem finnast í 1 takti, vera búnar og 2, sem máskie einúngis seu í ødrum og jafnmikill saungtími gánga til hvørs takts nótna. Þetta er mest árídandi høfud-atridi eitthvørt fyrir reglulegann saung, því hvør óregla gjetur gjørt nockurn saung hræmuglegri, enn þar sem t. d. nockrir í kirkju sýngja sama lagid í einu fliótt, adrir í medal-lagi og þridju teygja endalausa rorru úr hvørju atqvædi, eda hendíngu? og þaraf leidir, ad fallegustu løg og hljód verda þá opt ad óløgum og óhljódum. Sá sem fliótast sýngur hefir lagid, sem á vid 4du hendíngu versanna, medan sá, er medalveginn ratar, sýngur 3ju hendíngar lag, en hinn, er seyminn dregur, er þá fyrst ad birja á 2ari hendíngunni, svo þegar þeir fyrstu eru búnir í kór, stendur vída á midju versi í framkirkju. Saungurinn verdur þá á stundum líkur ógreinilegu hávada buldri í mann-øs.

Þad nefnist heill takt, þegar 4 jafnlángar nótur gánga í hvørn eda þeirra ígyldi, en þessar nótur mega ad merkíngu og verdi þá ecki vera stærri hvør enn svari ¼ takts. Þeirra mind sýnir þeirra gyldi. 1 heil nóta, sem einsømul útgjørir heilann takt, er stór og opin aflaung nóta hala-laus; se høfud hennar opid, en hali, þadan upp eda nidur, (því einu gyldir í hvørja átt hann snýr,

snúr, þar, eptir höfdi hennar, og þess stad á línunum eda milli þeirra, ser nafn hennar), eru þad hálf-nótur, sem 2 samgylda heilli, eda heilum takti. En seu þær lausar hvør frá annari med litlu svartu höfdi og beinum hala, gánga 4 þvílíkar í heilann takt eda heila nótu, og kallast hvør þvílík $\frac{1}{4}$ partur úr heilli. Þvílík er hvør ein nóta í þeim fyrstu 3 töktum í No. 40, en 4da taktins endar hálf nóta, svo hann samgyldir eins hvørjum hinna, en á þeirri hálf-nótu skal tóninum halda eins lengi og 2 adrar, hvør $\frac{1}{4}$ partur ad stærd, ættu ad útsyngjast.

Nú verdur spurt: hvørsu fljótt gengur reglulegur Sálma-saungur? hvar lögin gánga í heilum töktum, sem ætíd er upphaflega gjefid til kynna med stóru C, eins og siest vid þau 3 nóterndu lög í bókinni edur vid No. 40, 64 og 70, (og optar er Sálma-takt þvílíkur), gánga öll jafnfljótt, og hvørt atqvædi, sem heyrir til svartri $\frac{1}{4}$ parts nótu þarf vidlíkann tíma í saung, og svara kynni seins ædar-slags bili á handleggi heilbrygds manns; ellegar vilji menn reikna þad út ödruvísi, eins og þegar menn telja seint: 1, 2, 3, 4, og um leid vid fyrstu töluna slá flatri hendinni lítid ofan á vid, vid adra töluna til vinstri, vid þridju töluna til hægri hlidar, og vid 4du upp á vid, svo 4 jafn-fljót slög gángi á hvørn takt og standi nákvæmlega heima, sem menn útaf fyrir sig verda, í fyrstu ad, venja sig á til lærdóms og leidarvísirs. Gángi saungurinn fljótar, er C ei fyrir framan, heldur ₵ edur $\frac{2}{4}$, ellegar $\frac{3}{4}$ eda þess konar, og siest þá þar af, ad í hvørn takt þurfi 2 nótur af $\frac{1}{4}$ gyldi, eda 3 nótur eins merkar, gánga þá ei meir enn 2 eda 3 ádurnefnd sein ædar- edur flat-handar-slög þar á takt, og se sumstadar á laginu hlaupid, eru opt lángar og stuttar nótur saman, edur opnar hálf-nótur og svartar $\frac{1}{4}$ parts nótur á víxl, ellegar $\frac{1}{4}$ parts nótur og $\frac{1}{8}$ parts. Attundi partur úr heilli nótu er svørt nóta, hvørrar hali annadhvørt hefir lángann spora út úr, eda er med þverstriki bundin vid adra vidlíkalá halanum; en sjaldnar brúkast þær í Sálma-

saung nema í løgum, hvár sumstadar er hlaupid á vissum atqvædum, sem fljótt gánga; þó er audskilid ad tvær $\frac{1}{8}$ parts nótur skulu bádar tilsamans útsúngnar vera á sama tíma og $\frac{1}{4}$ parts nóta reglulega þarf, edur 2 þvílíkar gánga á hvørt seimt ædar- edur handar-slag.

Yfir því sídasta atqvædi í hvørri hendíngu Sálma stendur ⌒, sem gjefur til kynna, ad vid þan hendínga-skipti, skuli Forsaungvarinn og hljódfæri, sem á er spilad vid Sálma-saung, draga seinasta atqvædid, medan fólkid hæglega dregur ánda. Sá dráttur þarf því ei ad vera ølln meiri, enn vel svari $\frac{1}{4}$ parts nótu, edur rúmu ædar-slagi. Teiknid :||: er ítrekunar merki, og sýnir ad allt sem fyrir framan er, ad upphafi eda sama teikni nærst á undan, egi ad vera undir sømu nótum. Svo er t. d.: í No. 40, vid enda 4da taktsins ítrekunar-merki, sem sýnir ad sama lag og var í þeim 4 toktum vid 2 fyrstu hendíngarnar, skuli og vera vid 2ær nærstu. Þar eptir kjemur sama teikn eptir hvørja 2 takta, sem býdur ad ítreka þar lagid vid hvørja hendíngu, eins og versid og nóturnar tilvísa. Í No. 40 sjest ⤳ á enda nærst efstu línu, í fyrstu nótna rød, þýdir þad, sem útreikníngurinn gjetur sýnt, ad þar se ei taktinn á enda, heldur skiptur og byrji nærsta nóta hans þar í fylgjanda nótu-rød, sem teiknid stendur. Annad af nótu-teiknum vid þau 3 fyrr-nefndu nóterudu Sálma løg í þessari bók, eda venjulegar Sálma-nótur, er þá ei eptir óljóst, nema þagnar-merkin, af hvørju ϒ gjefur til kynna, ad þar skuli þegja um $\frac{1}{4}$ parts nótu bil, eda góds ædar-slags bil, sem þad stendur, en se þad ▬, skal þar þeigja um hálf-nótu edur 2ja slaga bil; þad fyrra sjest vid No. 64, þetta vid No. 70, og nótu-reikníngurinn eptir takta nidurskipun á bádum stødum, sýnir beggja gyldi. Se • aptan vid nótu-høfud, til dæmis: aptan vid svarta $\frac{1}{4}$ parts nótu, lengist hún um helming, og eins þó hann standi vid opna hálf-nótu, er þá sú hálf-nóta hid sama ad lengd, og 3 af $\frac{1}{4}$ parts nótum. Þó nú øll þessi teikn ekki fyrirkømi hjer í þessum 3 nóterudu løgum, var þó tilhlýdi-

legt

legt, ad gjefa nockra útskíríngu um þau, ef nótur til fleiri Sálma-laga kynnu sídar ad útkoma eda fyrir sjónir í ødrum Sálma bókum.

Þessar fáu grunndvallar-reglur eru þeim ómissandi ad vita og muna, sem vilja hafa gagn af nótum og ná gódri reglu í Sálma-saung; en til þess ad ofþýngja ei heldur í senn med ødru í þessu efni, enn því allra ómissanlegasta, er nú annad hjer undanfellt, sem þó heyrir til stærri fullkommunar í saung.

Eptirfylgjandi reglur er og naudsynlegt ad adgjæta vid Sálma-saung í kirkjum og heima-húsum:

1.) Sá lagvissasti og besti saung-madur þarf á hvørjum stad ad veljast til Forsaungvara. Hann ætti í kirkjum ad hafa sæti vid kór-dyrastaf, svo ad bædi kór og fram-kirkja heyrdi gløggt til hans, og gjæti eptir honum lagad saung sinn.

2.) Hann ætti vel ad æfa sig í þeckíngu nótna og þeirra gyldis, þeim samsvarandi tónum og takt-reglunum sljótleika í saung, þøgn á tilhlýdilegum stødum eptir teiknunum, til dæmis: í No. 64. sjest þagnar-merki um ½ parts nótu í upphafi, hvørs vid byrjunina ei ajetur gætt, fyrri enn lagid med 3ju hendíngunni er tekid upp aptur; þess vegna, þegar hann endar 2ra hendíngu versins á hólfnótunni g. og hefir haldid sama tóni á henni jafnt 2ur ¼ parts nótum, og enn þá, sem Forsaungvari vegna hendínga-skiptanna dregid þar hljódid enn lengra fram um ¼ parts nótu bil, þegir hann eins lángann tíma, edur jafnt ¼ parts nótu, ádur enn hann byrjar 3ju hendínguna med ordinu: hverfi. Allt eins, ádur enn 2ra, 5tu og 6tu hendíngu í þessu versi byrjar, eins og teiknin avísa. Sú þøgn er þar í laginu sønn prýdi, en engin lýti.

3.) Þegar Forsaungvarinn eptir reglunum hefir mátulega dregid hendínga lotin, og hvar þagnar-merkin tilvísa, mátulega þagad, tekur hann strax upphafid á næstu hendíngu, og andar þá fyrst sjálfur, þegar fólkid hefir undir tekid. 4.)

4.) Allt fólk annad ætti vandlega varast, ad draga saungínn eda flóta honum hid minnsta, ødruvísi enn Forsaungvarinn hefir fyrir því, svo á honum liggi allur vandinn med hans nidurskomtun og reglu, og ad hvørr madur verdi honum samferda med hvørja hendingu, hvørn takt í hendíngu og hvørt atqvædi í takt. Þá fyrst gjeta allir ordid samhljóda í laginu og saungurinn reglulegur; en vid hvør hendinga-skipti skal eins varast ad draga sauginn nockurn hlut eptir Forsaungvaranum, heldur ega allir ad þagna strax og hvør hendíng er búin, vid serhvørja lidugt anda, og annadhvørt hvørgi annarstadar auda, ellegar þar þó á ný; en rett á medan heldur Forsaungvarinn fram sama tóni, og ætlar fólkinu mátulegt andrúm; þegar hann svo tekur upphaf á næstu hendíngu á allur søfnudurinn, sem einn madur, þar undir ad taka, en enginn munnur fyrri.

5.) Þessi regla er ecki einúngis hin audveldasta heldur sú nota-drjúgasta til ad ákoma gódri saung-reglu í kirkjum, þegar Prestar, sem einkanlega þurfa fyrir þessu ad gángast, ecki ega vid of þverlyndt og sávísi fólk ad berjast, og þeþsu þykir minkun ad, med heimsku mótþróa ad vilja spilla gódri reglu í útvortis Guds þjónustu-gjørd. Gæfust nockrir þvílíkir, mót von, er þeirra stadur og sæti óhentugast í kór, hvørra auk þessa ecki ætti ad vera kjørinn til vyrdinga sæta, heldur sæta fyrir góda, liduga og vidfeldna saungvara, helst úngmenni. Se þessi regla því vel adgætt, mun lagid verda hid sama hjá øllum, raddirnar samhljóda, taktar og atqvædi og kór framkirkju samferda, sem víst er nýtt ad heyra í fjølmennum søfnudum vída; og allir munu fljótt finna ser miklum mun hægra, undir eins og audveldara, greinilegra, uppbyggilegra fyrir áheyrendur, og prýdilegra þanninn ad syngja í kirkjum og heimahúsum, enn ad hvørr gauli í belg og kjeppist máta- og adgreiníngar-laust, sumir ad grípa hvørr

fram

fram fyrir annann og endina á lopti, stundum í midjum ordum og meiningum, og sumir ad draga seyminn í saung, hvørr ødrum lengur.

6.) Su seinasta varúdar-regla fyrir Forsaungvara skal hjer vera, hvørki ad byrja løgin hærra enn nóturnar ávísa, ne nockurntíma svo hátt, ad fjølda safnadarins veiti ørdugt í fullum róm laginu ad fylgja, þó Forsaungvaranum se þad hægt. Þad er ljótt bædi ad heyra og sjá, þegar saungvarar kúga upp skræki á stángli med uppblásnum ædum á høfdi og øllu andliti af ofraun, auk þessa er þad brjóstinu óhollt; en svo sem þetta er opt um of, svo er þad allt eins um van, þegar saungurinn verdur ad ólundar rauli í lægstu nótum. Sá fer saungurinn best í þessu tilliti, sem nótunum fylgir, hvørjar ætíd eru settar mátulega hátt vid serhvørt lag, eins og þad bædi lætur best og er øllum hægast í hreinum medal-róm fjøldans.

Hvørsu verdugt og tilhlýdilegt er þad ei, ad hvørr og einn leggi af ljótann vana í saung, en þar á mót alúd á, ad útvortis Guds þjónústa megi sem reglulegast og prýdilegast framfara, og þar med fá uppørfad annara gudrækni! hvørsu bágt þar á móti, ef hyrduleysi og óregla brjóta nidur þad gagn, sem þessi þjónusta eins í Sálma-saung verka ætti! Óskin, ad styrkt yrdi til betri reglu enn fyrri í þessu efni, er orsøk til þessarar stuttu vegleidslu þar til, sem allir gódir vel-vyrdi!



